English section page 67–106

ᛅᚱ ᚢᛁᛋ ᛅᛚᛅᛁ

# Tímarit





**Þjóðræknisfélags Íslendinga**

XLV. ÁR

WINNIPEG, MANITOBA
1964



# TÍMARIT

**Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi**

XLV. ÁRGANGUR

Tilgangur félagsins er:

1. Að stuðla að því af fremsta megni að Íslendingar megi verða sem beztir borgarar í hérlendu þjóðlífi.

2. Að styðja og styrkja íslenzka tungu og bókvísi í Vesturheimi.

3. Að efla samúð og samvinnu meðal Íslendinga austan hafs og vestan.

Þetta er sá félagsskapur meðal Íslendinga í Vesturheimi, er aðallega byggir á þjóðernislegum grundvelli og hvetja vill þá til framsóknar og virðingar til jafns við þá þjóðflokka aðra, er þetta land byggja.

**Meðlimagjald $2.00 á ári**

**Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi**

Winnipeg, Canada

# IN MEMORIAM

## HEIÐURSFÉLAGAR OG FORSETAR

His Excellency Lord Tweedsmuir, Hon. Patron
His Excellency the Rt. Hon. The Earl of Athlone, K.C.
Kjartan Helgason, fyrrum prófastur
Stephan G. Stephanson, skáld
Frú Stefanía Guðmundsdóttir, leikkona
Prófessor Sv. Sveinbjörnsson, tónskáld
Þorbjörn Bjarnason, skáld (Þorskabítur)
Einar H. Kvaran, rithöfundur
Ragnar E. Kvaran, fyrrum prestur og forseti
Kristján Níels Júlíus (K. N.), skáld
Séra Jónas A. Sigurðsson, skáld og forseti
Dr. Rögnvaldur Pétursson, forseti og ritstjóri
Prófessor F. S. Cawley, Ph.D.
Friðrik Swanson, málari
Kapt. Sigtryggur Jónasson
Dr. B. J. Brandson, læknir
J. Magnús Bjarnason, rithöfundur
Dr. Hjörtur Thordarson, raffræðingur
Mrs. Guðrún H. Finnsdóttir, skáldkona
Friðrik Hallgrímsson, dómprófastur
A. S. Bardal, útfararstjóri
Ólafur Pétursson, fasteignasali
Sveinn Björnsson, forseti Íslands
Árni Pálsson, prófessor
Sigurgeir Sigurðsson, biskup
Ásmundur P. Jóhannsson
Dr. A. H. S. Gillson, U. of M. President
Einar Jónsson, myndhöggvari
Jón J. Bíldfell, fyrrum ritstjóri
Einar Sturlaugsson, prófastur
Þ. Þ. Þorsteinsson, skáld
Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, skáld
Gunnar B. Björnsson
G. J. Oleson
Halldór Hermannsson, prófessor
Dr. theol. Rúnólfur Marteinsson
Einar Páll Jónsson, ritstjóri og skáld
Dr. Þorkell Jóhannesson, háskólarektor
Rt. Rev. C. V. Pilcher, Sydney, Australia
Dr. John C. West, fyrrv. forseti U. of N.D.
Dr. Vilhjálmur Stefánsson

# Félagatal Þjóðræknisfélagsins 1963

---

### A. Heiðursverndarar (Honorary Patrons)

His Excellency the Right Honourable Vincent Massey, fyrrv. landstjóri Kanada.
Herra Ásgeir Ásgeirsson, forseti Íslands.
His Excellency the Right Honourable George P. Vanier, landstjóri Kanada.

### B. Heiðursfélagar (Honorary Members)

Prófessor Sigurður Nordal, Reykjavík, Ísland
Dr. Watson Kirkconnell, President, Acadia University, Wolfville, N. S.
Dr. Henry Goddard Leach, New York, N. Y.
Jóhannes Jósefsson, íþróttamaður, Reykjavík, Ísland
Guttormur J. Guttormsson, skáld, Riverton, Man.
Mrs. Jakobína Johnson, skáldkona, Seattle, Wash.
Mrs. Laura Goodman Salverson, skáldkona, Toronto, Ont.
Fröken Halldóra Bjarnadóttir, ritstj. Hlín, Blöndósi, Ísland
Jónas Jónsson, fyrrv. alþingismaður, Reykjavík, Ísland
Thor Thors, sendiherra Íslands, Washington, D.C.
J. T. Thorson, yfirdómari, Ottawa, Ontario
Árni G. Eylands, stjórnarráðsfulltrúi, Stavanger, Noregi
Vilhjálmur Þór, bankastjóri, Reykjavík, Ísland
Gísli Jónsson, ritstjóri Tímaritsins, Winnipeg, Manitoba
Próf. Ásmundur Guðmundsson, fyrrum biskup Íslands
Séra Albert E. Kristjánsson, prestur, Blaine, Washington
Pófessor Richard Beck, Grand Forks, North Dakota
Dr. Helgi P. Briem, fyrrv. sendiherra, Reykjavík, Ísland
Sigurður Þórðarson, söngstjóri, Reykjavík, Ísland
Dr. Thorbergur Thorvaldson, prófessor emeritus, Saskatoon, Sask.
Dr. Árn Helgason raffræðingur, Chicago, Ill.
P. H. T. Thorlakson, M.D., Winnipeg, Manitoba
Guðmundur Grímsson, fyrrv. yfirdómari, Bismarck, North Dakota
Stefán Einarsson, fyrrv. ritstjóri Heimskringlu, Vancouver, B.C.
Dr. Stefán Einarsson, próf. emeritus, Reykjavík, Ísland
Gunnar Thoroddsen, ráðherra, Reykjavík, Ísland
Valdimar Björnsson, ríkisféhirðir, Minneapolis
Guðmann Levy, fjármálaritari Þjóðræknisfélagsins, Winnipeg, Manitoba
Dr. theol. Valdimar J. Eylands, Winnipeg, Manitoba
Mrs. Kristín Thorsteinsson, Gimli, Manitoba
Hon. John G. Diefenbaker, forsætisráðherra Kanada
Hon. Dufferin Roblin, forsætisráðherra Manitobafylkis
Guðm. Í. Guðmundsson, utanríkisráðherra Íslands
Sigurður Sigurgeirsson, bankaritari, Reykjavík, Ísland
Ólafur Hallsson, Eriksdale, Manitoba
Dr. H. H. Saunderson, President University Manitoba

**C. Styrktarfélagar 1963**
**Sustaining members**

Mr. J. T. Beck

Mr. and Mrs. Olafur Hallsson

Mr. Fred Thordarson

Mrs. Louisa Gislason

Mrs. M. S. Perkins

Dr. and Mrs. Richard Beck

Mr. Walter Johannson

Mr. Grettir Leo Johannson

Mrs. Ingibjörg Jónsson

**D. Life members**

K. Valdimar Björnson, Minneapolis, Minn., U.S.A.

Björn Björnson, Consul of Iceland, Minneapolis, Minn., U.S.A.

Dr. Helgi P. Briem, Reykjavík, Iceland

Grettir Eggertson, Winnipeg, Man.

Dr. Árni Helgason, Consul of Iceland, Wilmette, Ill., U.S.A.

Eric Ísfeld, Winnipeg, Man.

Grettir Leo Johannson, Consul of Iceland, Winnipeg, Man.

J. Walter Jóhannson, Pine Falls, Man.

Mrs. B. E. Johnson, Winnipeg, Man.

Guðmann Levy, Winnipeg, Man.

Mrs. Anna Margrét Levy, Winnipeg, Man.

Óskar E. Levy hreppstjóri, Ósum, Húnavatnss., Iceland

Gunnar R. Pálsson, Lake Park, Florida, U.S.A.

Rev. P. M. Pétursson, Winnipeg, Man.

Árni Sigurðsson, Seven Sisters Falls, Man.

Dr. P. H. T. Thorlakson, Winnipeg, Man.

Dr. Richard Beck, Grand Forks, N. Dak.

Mrs. Margret Beck, Grand Forks. N. Dak.

Mrs. Mekkin S. Perkins, Des Moines, Calif.

Einar E. Stephanson, Red Deer, Alta.

Walter Maxon, Innisfail,Alta.

1. ÍSLAND

**E. Ársfélagar**

Jóhannes Eiríksson, Kristneshæli, Eyjafjarðarsýslu

Landsbanki Íslands, Reykjavík

Miss Kristín H. Pétursdóttir, Reykjavík

Séra Ásgeir Ingibergsson, Hvammi í Dalasýslu.

2. KANADA

**Ashern, Man.**

Björn Jónasson

**Atikokan, Ont.**

Einar I. Swanbergson

**Brandon, Man.**

Dr. E. J. Skafel

**Elfros, Sask.**

Helgi Hornfjörð
Rósmundur Árnason

**Hayland, Man.**

Sigurður B. Helgason

**Kristnes, Sask.**

Guðmundur Stefánsson
Bæring Gablielsson

**Leslie, Sask.**

Ásgeir Gíslason
Páll Guðmundson

**Matheson Island, Man.**

Árni G. Johnson

**Montreal, Ont.**

Mrs. H. L. Robson

**Prince Rupert, B.C.**

Kristján Einarsson

**Riverton, Man.**

Hallgrímur Joh.Stadfeld
Valgeir G. Stadfeld
M. Coghill
Kris. Thóransson
S. B. Johnson
Guðjón E. Johnson

**Saichton, B.C.**

Mrs. Thordis Fisher

**Toronto, Ont.**

H. J. Péturson.

**Winnipeg, Man.**

Mrs. L. A. Björnson
J. A. Eastman
Miss Vilborg Eyjólfsson
Miss Carolina Gunnarsson
Mrs. Gyða Hurst
Halldór J. Stefánsson
David Björnson
Mrs. Rose Björnson
G. F. Jónasson
Lovisa Bergman
Loyd Magnus
J. M. Page

**Wynyard, Sask.**

Thorsteinn Guðmundson
Magnús Jónasson

3. BANDARÍKIN

**Boston, Mass.**

Kormákur Ásgeirsson
Kapt. Jóhannes G. Ásgeirsson
Valgeir Einarsson
Kapt. Thor Guðmundss.
Kapt. Guðm. Jóhanness.
Gunnlaugur Jónsson
Kapt. Theodór Jónsson
Guðmundur Pálsson

**Cashmere, Wash.**

Chris Guðmundson

**Charlottesville, Virg.**

Prof. R. L. Kellogg

**Ft. Landerdale, Fla.**
Gunnlaugur Illugason

**Grand Forks, N. Dak.**
Mrs. V. Guðmundson,
University of N. Dak. Library

**Ithaca, N.Y.**
Vilhjálmur Bjarnar

**Lincoln, Nebraska**
Prof. Paul Schach

**Hopple, N. Dak.**
Mrs. Laufey Aaland

**New Brunswick, N.J.**
Prof. Helgi Johnson,
Rutgers University Library

**Minneapolis, Minn.**
G. T. Athelstan
Mrs. Edda Laxdal

**New Haven, Conn.**
Yale University Library

**Hickville, L.I., N.Y.**
Olaf Helgason

**Oceanside, L.I., N.Y.**
Andrés Guðmundson

**Salinas, Calif.**
Prof. Loftur Bjarnason

4. DEILDIR OG SAMBANDSFÉLÖG

**The Icelandic Society of New York**
Hannes Kjartansson
Jerome Miller
Mrs. Jerome Miller
Miss Halldóra Rútsdóttir
Ludvik Jónsson
Richard Richardson
Mrs. Margrét Rossback
Mrs. Thorey Vogle
Edward Eoulfield
D. Sommerfield
Árni Ólafsson
Capt. Olaf Olsen
Capt. Magnús Norðdahl
Mrs. William Richards
Mrs. Edda Magnússon
Mrs. Eane Thomson
Mrs. Nanna Kolberg

**„Frón", Winnipeg**

Forseti
Jakob F. Kristjánsson

Varaforseti
Próf. Haraldur Bessason

Skrifari
Páll Hallson

Varaskrifari
Skúli Jóhannson

Gjaldkeri
Jochum Ásgeirsson

Varagjaldkeri
Miss Guðbjörg Sigurðsson

Fjármálaritari
Gunar Baldvinsson

Varafjármálaritari
Valdimar Lárusson

Bókavörður
Mrs. Ólína Johnson

**Meðlimir**

Ævifélagar:

Grettir L. Johannson
Séra Philip M. Pétursson
Walter Johannson
Grettir Eggertson
Guðmann Levy
Anna M. Levy
Mrs. B. E. Johnson
Eric H. Ísfeld

Ársfélagar:
Hallgrímur Axdal
Hannes Anderson
Margrét S. Anderson
Jochum Ásgeirsson
Mrs. Jochum Ásgeirsson
Oddný Ásgeirsson
Soffía Benjamínsson
Jóhann Th. Beck
Svanhvít Beck
Shirley G. Block
Rafnkell Bergson
Andrés Björnsson
Gunnar Brynjólfsson
Guðmundur Bjarnason
Skúli Böðvarsson
O. G. Björnsson
Haraldur Bessason
Ásgerður Bessason
Ólafur Bjarnason, Seattle
Guðrún Baldvinsson
Gunnar Baldvinsson
Jóhannes Christie
Jóhanna Cooney
Jón Christopherson
H. F. Danielson
Mrs. H. F. Danielson
Lína Dunning
Gestur Davidson
Mrs. R. Davidson
C. O. Einarsson
Árni G. Eggertson, Q.C.
Maja Eggertson
Stefanía Eydal
Gunnar Erlendsson
Jens Elíasson
Ólafía Finnbogason
G. Finnbogason
Fred Friðfinnsson
A. Fridrickson
Mrs. Trausti Friðriksson
Ingunn Gíslason
Mrs. Ragnar Gíslason
J. S. Gillies
Magnús Gunnlaugsson
Matta Gunnlaugsson
Kristinn Gunnlaugsson
Carl Hanson
Ben Heiðmann
Karólína Heiðmann
Páll Hallson
Th. Hansson

Eric Helgason
Svava Helgason
Fanney Helgason
Thor Otto Hallson
Jón Hafliðason
T. L. Hallgrímsson
Jónína Hjálmson
Th. Ísleifson
Mrs. Th. Ísleifson
Björg Ísfeld
Sigríður Jakobsson
Steindór Jakobsson
Rósa Jóhannsson
Kristín Johnson
Skúli Jóhannsson
Erika Jóhannsson
Bertha Jones
Mrs. Jóhanna Jónasson
Ingibjörg Jónsson
J. G. Jóhannsson
Finnur Johnson
Kristín Johnson
Páll Johnson
Ólína Johnson
Mrs. Á. P. Jóhannsson
Inga Johannson
Miss Halla Josephson
K. W. Johannson
Hlaðgerður Kristjánsson
Mrs. Gestný Kristjánsson
J. F. Kristjánsson
Mrs. J. F. Kristjánsson
W. Kristjánsson
Jón K. Laxdal
J. J. Líndal
Una S. Líndal
W. J. Líndal
H. V. Lárusson
Ari G. Magnússon
Helgi Marteinsson
Sumarliði Matthews
Jakobína Nordal
Mrs. Ben. Ólafsson
Th. Olafsson
Helgi Olsen
Óli Ólafsson
Elva Oleson
Snorri Oleson
Sesselja Oddson
Jónína Olson
Margrét Paulson
Mrs. William Paulson
Guðbjörg Paulson
Sigríður Phepps
Þórey Pétursson
Hólmfríður Pétursson
Margrét Pétursson
Ólafur Pétursson
Pétur J. Pétursson
Hannes J. Pétursson
Jón Samson
Rósa Sigfússon
Bergljót Sigurðsson
Guðbjörg Sigurðsson
Halldór Sigurðsson
Rannveig Sigurðsson
Regina Sigurðsson
Mrs. Sigríður Sigurðsson
Sigurþór Sigurðsson
María Sigurðsson
Mrs. Hrund S. Skúlason
Stefán Stefánsson
Ingunn Steinthorson
Hans M. Sveinsson
Guðrún Sveinsson
Björgúlfur Sveinsson
Ingi Sveinsson
Líney Sveinsson

# TÍMARIT

## ÞJÓÐRÆKNISFÉLAGS ÍSLENDINGA

FERTUGASTI OG FIMMTI ÁRGANGUR, 1963

Ritstjórar

GÍSLI JÓNSSON

HARALDUR BESSASON




WINNIPEG, MANITOBA

Gefið út af Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi

1964

## Myndir

Bls.

Stjórnarnefnd félagsins ........ 4

Ólafur Hallsson ........ 7

Hólmfríður Danielson ........ 7

Gísli les á bók ........ 61

Albert Thorvaldsen ........ 90

Self-portrait, Thorvaldsen ........ 92

Statues in The Church of Our Lady ........ 94

PRENTAÐ HJÁ COLUMBIA PRINTERS, WINNIPEG

# Efnisyfirlit

Bls.

DR. RICHARD BECK: Þjóðræknisfélagið 45 ára ... 5

GUTTORMUR J. GUTTORMSSON: Fenrisúlfurinn ... 30

HJÖRTUR PÁLSSON: Jörfagleði í Dölum ... 31

SN. J.: Sir William Alexander Craigie ... 37

HARALDUR BESSASON: Bréf frá St. G. St. og Sigfúsi Blöndal ... 38

ÁSGEIR GÍSLASON: Sléttubönd og hringhendur ... 54

SN. J.: Kvöldræða ... 55

G. J. og H. B.: Bækur ... 56

RICHARD BECK: Helztu viðburðir ... 62

GUTTORMUR J. GUTTORMSSON: Know Thyself ... 67

DR. TRYGGGVI J. OLESON: Anglo-Saxon England and Iceland ... 80

HÓLMFRÍÐUR DANIELSON: Albert Thorvaldsen, Sculptor ... 90

RICHARD BECK: Mannalát ... 106

Fertugasta og fjórða ársþing ... 114



From left to right:
J. T. Beck, H. Bessason, J. F. Kristjánsson, P. M. Pétursson, W. J. Lindal, G. L. Johannson, G. Levy.

**DR. RICHARD BECK:**

# Þjóðræknisfélagið 45 ára

Tildrög stofnunar Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi og starfssaga þess að þeim tíma eru all nákvæmlega rakin í ritgerð dr. Rögnvaldar Péturssonar „Þjóðræknisfélagið 20 ára“, sem birtist hér í ritinu 1939, og í ritgerð minni „Aldarfjórðungsafmæli Þjóðræknisfélagsins“ í 25. árgangi þess rits 1944. Þess gerist því engin þörf að segja þá sögu félagsins hér að nýju, en vísast um það efni til fyrrnefndra ritgerða.

Gísli skáld Jónsson, ritstjóri þessa tímarits áratugum saman, sem verið hefir handgenginn félaginu og málum þess frá upphafi vega, bregður glöggu ljósi á stofnun þess og það andrúmsloft, er á þeim árum ríkti hér í Vesturálfu, í smágrein, sem hann birti hér í ritinu á þrjátíu ára afmæli þess og félagsins. Honum farast þannig orð:

„Fáir Íslendingar, jafnvel þeir bjartsýnustu, hefðu dirfst, þegar félagið var stofnað, að spá því þrjátíu ára aldri, hvað þá lengri. Á þeim árum, í stríðslokin fyrri, voru all aðsúgsmiklir hinir svonefndu hundrað prósent menn — sem töldu næst landráðum, að hugsa, tala eða vinna að nokkru því, sem ekki var enskt. Félag vort, og reyndar fleiri þjóða einkafélög, var að nokkur leyti stofnað til að mótmæla þeirri stefnu, en einkum þó til að stuðla að innbyrðis samkomulagi og samvinnu meðal allra Íslendinga, án tillits til pólitískrar eða trúarlegrar skiftingar. Sagan sýnir nú að það tókst. Gifta vor varð flokkadráttunum yfirsterkari.“

Þegar í minni er borið það viðhorf til erlendra þjóðbrota, sem Gísli lýsir í frásögn sinni, kemur það ekki á óvart, þó að þaðan megi sjá nokkur áhrif í stefnuskrá Þjóðræknisfélagsins frá þeim umbrotaárum. Mun það því hreint engin tilviljun, að tjáning þjóðhollustunnar við kjörlandið er færð í markvísan orðabúning í upphafsmálsgrein stefnuskrárinnar, er segir, að tilgangur félagsins sé í fyrsta lagi sá: „að stuðla að því að fremsta megni að Íslendingar megi verða sem beztir borgarar í hérlendu þjóðlífi.“ Þetta er vel mælt og viturlega, enda hefir þessi málsgrein, og þær stoðir, sem undir hana renna í hinum tveim málsgreinum stefnuskrár félagsins, verið áttaviti vor í starfsmálum félagsins fram á þennan dag. Sem frekari túlkun umræddrar málsgreinar leyfi ég mér að endurtaka eftirfarandi ummæli úr forsetaskýrslu minni á 25 afmæli félagsins:

„Annars er framangreind málsgrein laga félags vors prýðilega skilgreind í ritgerðum þeirra dr. Rögnvaldar Péturssonar og séra Guttorms Guttormssonar í fyrsta árgangi **Tímarits** þess. Leggja þeir báðir réttilega áherzlu á það atriði, að það sé meir en þegnhollustan ein við hið

nýja land, þó sjálfsögð sé og mikilvæg, sem hér er um að ræða, menn verða að leggja eitthvað á borð með sér, menningarlega talað, til þróunar þjóðarinnar, sem þeir eru orðnir hluti af, annars geta þeir illa hlutgengir talizt. Séu þeir snauðir að veraldlegum auði, skyldu þeir minnast orðanna ódauðlegu: „Silfur og gull á ég ekki, en það sem ég hefi, það gef ég þér." Er þar í þessu sambandi átt við þá menningarlegu auðlegð og þann hugsjónaarf, sem Íslendingar hafa að erfðum þegið. Af þeim auði andans og manndómsins ber þeim að miðla sinni nýju þjóð sem örlátlegast."

En til þess, að það geti orðið, verða menn vitanlega að varðveita sem lengst og ávaxta sem bezt dýrmæta menningararfleifð sína. Á þetta minnir önnur málsgrein stefnuskrár félags vors, svohljóðandi: „Að styðja og styrkja íslenzka tungu og bókvísi í Vesturheimi." Eigi verður það heldur gert til lengdar, ef menn slitna úr tengslum við ætternislegan og menningarlegan uppruna sinn. Þessvegna er það, í þriðja lagi, aðalmarkmið félagsins: „Að efla samúð og samvinnu meðal Íslendinga austan hafs og vestan."

Nægilega hefir þá lýst verið tilgangi Þjóðræknisfélagsins, og í anda hinnar þríþættu stefnuskrár þess, hefir starf þess verið unnið nú í hálfan fimmta áratug. Segja má einnig, að á starfsemi þess séu þrjár hliðar, sú hliðin, sem snýr að oss Íslendingum innbyrðis hér í álfu, sú hliðin, sem snýr að Íslandi, og sú hliðin, sem snýr að erlendum mönnum og þjóðum. En þessar meginkvíslir félagsstarfsins falla óhjákvæmilega með ýmsum hætti í sama farveg.

Þegar rennt er sjónum yfir farinn veg félagsins, mun eigi annað verða með sanni sagt, en að stofnendur þess hafi lagt traustan grundvöll að starfsemi þess. Ber þeim því heiður og þökk vor hinna, er leitazt höfum við að fylgja þeim í spor. Það yrði of langt mál, ef telja ætti upp þá hina mörgu, karla og konur, sem hlut áttu að stofnun félagsins, en allmargra þeirra er getið í framannefndum ritgerðum í tilefni af 20 ára og 25 ára afmælum félagsins. Hér verða aðeins taldir eftirfarandi stofnendur, er jafnframt voru fyrstu embættismenn félagsins, en það voru:

Forseti: Séra Rögnvaldur Pétursson

Vara-forseti: Jón J. Bíldfell

Ritari: Dr. Sigurður Júl. Jóhannesson

Vara-ritari: Ásgeir I. Blöndahl

Gjaldkeri: Ásmundur P. Jóhannsson

Vara-gjaldkeri: Séra Albert E. Kristjánsson

Fjármálaritari: S. D. B. Stephansson

Vara-fjármálaritari: Stefán Einarsson

Skjalavörður: Sigurbjörn Sigurjónsson

Yfirskoðunarmenn reikinga: Einar P. Jónsson og Hannes Pétursson.



**Mr. Ólafur Hallsson**

Flestir þeirra komu síðan með mörgum hætti við sögu félagsins, stóðu þar í fylkingarbrjósti árum eða jafnvel áratugum saman, eins og starfssaga félagsins ber órækast vitni. Af þessum fyrstu embættismönnum félagsins eru nú tveir ofan moldar, þeir séra Albert E. Kristjánsson, Blaine, Washington, og Stefán Einarsson ritstjóri, Vancouver, B.C.

**Útbreiðslu- og fræðslumál**

Frá stofnun Þjóðræknisfélagsins hefir útbreiðslustarfsemi af hálfu þess að sjálfsögðu verið eitt af meginviðfangsefnum stjórnarnefndar þess. Sú viðleitni hefir verið í því fólgin, að koma á fót félagsdeildum, hvar sem því varð viðkomið, að styðja í starfi þær deildir, er þegar höfðu stofnaðar verið, og að afla félaginu sem flestra einstakra félagsmanna sem víðast um Vesturálfu. Frá stofnun og starfsemi deilda félagsins fyrstu 25 ár þess er skýrt í framannefndum ritgerðum okkar dr. Rögnvaldar, og verður því farið fljótt yfir þá sögu hér. Til þess að spara rúm og óþarfar endurtekningar, er stofnár flestra deildanna tilgreint í svigum.

Deildin „Frón" í Winnipeg (1919), fyrsta deild félagsins og jafngömul því, er enn vel starfandi og meðal fjölmennustu deilda þess. Deildin „Fjallkonan" í Wynyard, Sask., sem stofnuð var sama ár, var starfandi fram til 1954. Af öðrum elztu deildum félagsins lifa deildin „Ísland" (1921), Brown (Morden), Man., og deildin „Brúin" (1923), Selkirk, Man, enn góðu lífi, en deildin „Snæfell" (1923), Churchbridge, Sask., og deildin "Iðunn" (1926), Leslie, Sask., voru starfandi fram á síðustu ár.

Aðrar núverandi deildir félagsins eru „Báran" (1937), Mountain og



**Mrs. Hólmfríður Danielson**

Garðar, N.Dak., „Esjan“ (1939), Árborg, Man., „Gimli“ (1943), Gimli, Man., „Aldan“ (1944), Blaine, Wash., „Lundar“ (1946), Lundar, Man., og „Ströndin“ (1956, sambandsdeild frá 1946), Vancouver, B.C. Ennfremur sambandsdeildirnar „Vestri“, Seattle, Wash., og „The Icelandic Society of New York“, sem báðar sameinuðust félaginu á ný fyrir nokkurum árum (1959 og 1960).

Eftirfarandi deildir voru einnig vel starfandi um allmörg ár: „Ísafold“ (1939), Riverton, Man., „Skjaldborg“ (1942), Mikley (Hecla), Man., og „Grund“ (1943), Argyle, Man.

Deildir félagsins, að sambandsdeildum þess meðtöldum, brúa álfuna frá New York til Seattle og Vancouver, og bera því vitni, hvað félagið stendur víða fótum að ógleymdum félagsmönnum, sem dreifðir eru um álfuna bæði í Kanada og Bandaríkjunum, og á Íslandi. Umræddar deildir eiga eðlilega við mismunandi aðstæður að búa, sem hefir sín óhjákvæmilegu áhrif á starfsemi þeirra. Fjölmennustu deildirnar eru í Vancouver, Árborg, Winnipeg og Gimli, enda mun starf þeirra með hvað mestum blóma. Hinar deildir félagsins halda einnig furðu vel í horfinu, þegar fækkun hinnar eldri kynslóðar er tekin með í reikninginn, bæði vegna þess, hve fylking hennar þynnist nú óðum, og einnig vegna brottflutnings eldra fólksins úr hinum eldri byggðum vorum vestur á Kyrrahafsströnd, og á það ekki sízt við um Vatnabyggðirnar í Saskatchewan. En þá er þess jafnframt að minnast, að ýmsir þeir, sem bezt voru starfandi að þjóðræknismálunum í fyrri heimahögum sínum, halda áfram að vinna þeim málum síðan vestur kom, hvort heldur er t.d. í Vancouver, Blaine eða Seattle. Ennfremur skyldi það þakklátlega munað, að á ýmsum þeim stöðum, þar sem eigi hefir lengur reynzt fært að halda uppi deildastarfsemi, eru enn einstaklingar, og jafnvel nokkur hópur þeirra, sem halda trúnaði sínum við málstað Þjóðræknisfélagsins og sýna í verki ræktarsemi sína við íslenzkar menningarerfðir.

En svo að horfið sé aftur að deildum félagsins, þá er það augljóst mál, enda oft á það bent í skýrslum forseta, að þær eru hornsteinar starfsemi þess, og framtíð félagsins því undir því komin, hvernig þeim farnast. Með þeirri staðhæfingu er, hins vegar, alls ekki verið að gera lítið úr starfi eða stuðningi einstakra félagsmanna eða gildi starfs þeirra fyrir félagsheildina. „Því dáð hvers **eins** er öllum **góð**, hans auðna félagsgæfa“, sagði Einar skáld Benediktsson réttilega og viturlega.

Rúm leyfir eigi að rekja í þessari frásögn starfssögu deildanna, þótt maklegt væri, en ársskýrslur þeirra, sem birtar eru í **Tímariti** félagsins, varpa nokkru ljósi á starf þeirra Þær sýna, að deildirnar hafa í starfi sínu, eftir ástæðum haldið vakandi áhuga á þjóðræknismálum og íslenzkum menningarmálum í víðtækari skilningi, með ýmiskonar samkomuhöldum, móttöku gesta heiman um haf, eða annara heimsækjenda til fræðslu og skemmtunar, sem tíðum hafa þá verið á vegum Þjóðræknisfélagsins. Sérstaklega mikilvægt hefir verið það verk

deildanna að halda uppi íslenzkum bókasöfnum og íslenzkukennslu, að meðtalinni söngkennslu fyrir börn og unglinga. En það hafa margar þeirra gert á umræddu tímabili, og gera, sumar þeirra, góðu heilli, enn í dag. Eitt er víst, að deildir félagsins hafa með mörgum hætti auðgað félagslífið og eflt samheldni Íslendinga á þeim stöðum þar sem þær hafa verið starfandi, og að öllu samanlögðu drjúgum meir en réttlætt tilveru sína.

En þó að mikinn fróðleik um harla margþætta starfsemi deildanna sé að finna í prentuðum skýrslum þeirra, er þar í rauninni ekki nema hálfsögð sagan, lýst ytra borðinu. Um hina hliðina, alúðina og fórnfýsina, sem að baki hinnar ytri starfsemi liggur, fór ég eftirfarandi orðum í forsetaskýrslu minni á 40 ára afmæli félagsins: „Hver fær talið sporin eða handtökin, tímann eða orkuna, er fjölmargar konur og karlar hafa lagt af mörkum, að ógleymdum beinum fjárútlátum, í þarfir deilda Þjóðræknisfélagsins og jafnframt í þágu félagsskaparins sjálfs í víðtækari merkingu? Slík fórnfæring í þjónustu menningarlegrar hugsjónar og framkvæmdar hennar í verki verður hvorki auðveldlega tölum talin eða á vog metin.“ Á þann trúnað við málstað félagsins og það göfuga markmið, sem það stefnir að, er jafn skylt að minna á þessum tímamótum í sögu þess.

Útbreiðslu- og fræsðlustarf Þjóðræknisfélagsins fléttast eðlilega saman með mörgum hætti, enda miðar sú starfsemi, beint og óbeint, að sama marki, í anda annarar málsgreinar stefnuskrár félagsins, um varðveizlu íslenzkrar tungu og bókvísi í Vesturheimi. Hefir starfið í þágu útbreiðslumála löngum lent á herðum stjórnarnefndar félagsins, þó að margir aðrir hafi einnig lagt þeim málum lið, oft fyrir atbeina nefndarinnar. En sú starfsemi heyrir einnig undir fræðslumálin, þar sem erindi þau, er flutt hafa verið af hálfu stjórnarnefndarinnar á stofnfundum deilda eða öðrum samkomum þeirra, hafa vitanlega fjallað um íslenzk menningarmál, ósjaldan samhliða íslenzkum söng, upplestri íslenzkra ljóða, og sýningu mynda frá Íslandi. Ennfremur hafa forsetar félagsins og aðrir úr stjórnarnefnd þess árlega flutt ávörp eða ræður á Íslendingadögum og öðrum samkomum meðal Íslendinga vestan hafs.

Fyllri frásögn um útbreiðslu- og fræðslustarfsemi forseta og annara embættismanna félagsins á því tímabili, sem hér um ræðir í sögu þess, er skráð í skýrslum forseta og deilda í **Tímariti** þess. Þegar kærkomna gesti frá Íslandi hefir að garði borið, svo sem oft hefir verið á umræddum árum, hefir stjórnarnefndin einnig átt hlut að því, af félagsins hálfu, að þeir gætu verið á deildasamkomum, með ræðuhald, söng eða aðra tónlist, eftir því sem ferðir þeirra eða aðrar ástæður leyfðu. Verður vikið nánar að sumum þeim heimsóknum í kafla þessa yfirlits um samvinnumál félagsins við Ísland.

Oftar en einu sinni hefir verið á það bent á ársþingum félagsins, að þar sem stjórnarnefndarmenn þess eiga löngum tímafrekum skyldu-

störfum að sinna, og vinna því félagsstörfin í hjáverkum, þá þyrfti félagið í rauninni að vera þess umkomið, að hafa í þjónustu sinni sérstakan erindreka, sem ferðaðist um meðal deildanna og ynni með þeim hætti að útbreiðslu- og fræðslumálunum samtímis. Í samræmi við samþykkt, er gerð var á ársþinginu 1947, réði stjórnarnefndin frú Hólmfríði Danielson sem erindreka (umboðsmann) fyrir nokkurn hluta starfsáranna 1947—48. Ferðaðist hún á því tímabili víða meðal deildanna, kenndi íslenzku og söng, stofnaði leshring í íslenzkum bókmenntum og átti fundi með þeim, og flutti erindi á mörgum samkomum. Rækti hún þetta starf af miklum áhuga og dugnaði, átti allstaðar góðri samvinnu að fagna, enda bar það ágætan árangur. Hún hefir einnig með ýmsum öðrum hætti látið sig skipta fræðslumál félagsins. (Um erindrekastarf frú Hólmfríðar, sjá skýrslu forseta, skýrslu deilda, og skýrslu hennar sjálfrar í þingtíðindunum frá þeim árum).

Haustið 1950 varð Þjóðræknisfélagið fyrir því happi, að Páll V. G. Kolka læknir, sem jafnframt er góðkunnur sem skáld, rithöfundur og fyrirlesari, gaf kost á sér til að ferðast um íslenzku byggðirnar vestan hafs á vegum félagsins. Heimsótti hann flestar deildir félagsins, flutti erindi og sýndi kvikmyndir frá Íslandi á samkomum, og kom einnig heim á fjölda íslenzkra heimila. Vann hann með þessu öllu hið ágætasta þjóðræknis- og kynningarstarf. Margar samkomurnar voru prýðilega sóttar, aðrar miður, eins og gengur, og kemur þar margt til greina, en hvarvetna átti hinn góði gestur hinum beztu viðtökum að fagna að verðleikum. (Sambr. ummæli í skýrslum forseta og deilda, og sjá einnig hina ítarlegu og athyglisverðu skýrslu Páls læknis í **Tímariti** félagsins 1951).

Þrem árum síðar áttu félagið og deildir þess jafn kærkomnum gesti að fagna heiman um haf, en það var séra Einar Sturlugsson, prófastur frá Patreksfirði, hinn mikli velgjörðarmaður íslenzka bókasafnsins við Manitobaháskóla, er var hér á ferð seinni hluta sumars og haustið 1953. En um ferðir hans fer þáver. forseti félagsins, dr. Valdimar J. Eylands, þessum orðum í skýrslu sinni fyrir það starfsár félagsins:

„Hann kom hingað vestur í boði háskóla Manitobafylkis, Íslendingadagsnefndarinnar og Þjóðræknisfélagsins. En hann hafði ekki á sér gestasnið meira en svo að hann fór að segja má dagfari og náttfari um helztu byggðir vorar í Manitoba, Saskatchewan, British Columbia, Washington og Norður-Dakota. Á þessum ferðum sýndi hann hreyfimyndir frá Íslandi 19 sinnum, flutti 15 erindi um Ísland, og 15 guðsþjónustur. Er mér ekki kunnugt um nokkurn gest frá Íslandi, sem á jafn skömmum tíma hefir lagt á sig aðra eins vinnu og séra Einar gerði hér. Stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins stóð fyrir þessum ferðum prófastsins og skipulagði þær. Að lokum vottaði nefndin honum þakkir og leysti hann út með lítilfjörlegum minningargjöfum. Tel ég sjálfsagt, að þetta þing vilji nú formlega votta honum þakkir félagsins og Vestur-Íslendinga.“ Var vitanlega vel und-

ir það tekið, og jafnframt kemur það glöggt fram í skýrslum deildanna, hvað vænt fólki þótti um komu séra Einars.

Þá er ástæða til að minnast sérstaklega heimsóknar séra Braga Friðrikssonar vestur um haf sumarið 1960, en hann kom hingað til að kynna íslenzka myndlist. Ferðum hans lýsti ég annars á þessa leið í forsetaskýrslu minni fyrir það starfsár:

„Ferðaðist hann á vegum Þjóðræknisfélagsins um byggðir vorar í Manitoba og Norður-Dakota, flutti erindi með litmyndum af Íslandi og íslenzku þjóðlífi, og sýndi prentmyndir af kunnum verkum margra hinna merkustu íslenzkra listmálara. Þegar hann hvarf heim um haf aftur, varð séra Jón Bjarman að Lundar við tilmælum félags vors um að halda áfram sýningum séra Braga í Churchbridge, Saskatchewan, og á ýmsum stöðum á vesturströndinni. Munu þeir prestarnir, að samanlögðu, hafa heimsótt flestar deildir félagsins á vegum þess, og vil ég í félagsins nafni þakka þeim fræðslu- og landkynningarstarfsemi þeirra. Var hér jafnframt um nýmæli að ræða, því að eigi hefir áður farið fram slík kynning íslenzkrar málaralistar meðal Íslendinga í Vesturheimi, og er vonandi, að þessi menningarlega viðleitni félags vors hafi orðið þeim, er sýningarnar sóttu, til ánægju og fróðleiks.“ Um hitt er óþarfi að fara mörgum orðum, hve vel þeim prestum var tekið á ferðum þeirra.

Áður en lokið er þessum þætti um útbreiðslu- og fræðslumálin, ber að minnast með sérstöku þakklæti hins víðtæka og mikilvæga starfs dr. Finnboga Guðmundssonar í þágu þeirra mála, er hann dvaldi hér vestra sem prófessor í íslenzkum fræðum við Fylkisháskólann í Manitoba. Var hann óþreytandi að ferðast um byggðir vor Íslendinga til ræðuhalda af hálfu Þjóðræknisfélagsins, og vann því einnig, beint, og óbeint, hið mesta gagn með sögulegri ferð þeirra Kjartans O. Bjarnasonar myndatökumanns um Íslendingabyggðir hér í álfu frá hafi til hafs til kvikmyndartöku af Vestur-Íslendingum, lífi þeirra og störfum. Á hinum mörgu samkomum þeirra flutti dr. Finnbogi fræðandi erindi, en Kjartan sýndi hina fögru kvikmynd sína af Íslandi í litum. Seinna var kvikmynd þeirra félaga af Vestur-Íslendingum sýnd um allt Ísland; með sýningu hennar og mörgum erindum og þáttum í Ríkisútvarpinu íslenzka hefir dr. Finnbogi einnig lagt merkilegan skerf til framhaldandi menningarlegra samskipta Íslendinga yfir hafið.

Síðan hann tók við kennaraembættinu í íslenzkum fræðum við Manitobaháskóla hefir Haraldur Bessason prófessor unnið jafn ötullega að útbreiðslu- og fræðslumálum Þjóðræknisfélagsins. Hann hefir þegar heimsótt flestar deildir félagsins, sumar þeirra oftsinnis, og flutt erindi á samkomum þeirra um íslenzkar bókmenntir og menningarmál, hið sama hefir hann gert á fjölmörgum öðrum samkomum meðal Íslendinga vestan hafs.

Hér að framan hefir, í sambandi við útbreiðslumálin, verið samtímis rætt um fræðslumálin á breiðum grundvelli, bæði af hálfu Þjóðrækn-

isfélagsins sjálfs og deilda þeirra. En með fræðslumálunum er, í þrengri merkingu, einkum átt við íslenzkukennslu og söngfræðslu á íslenzku. Hefir félagið, að vonum, látið sig það mál miklu skipta, styrkt deildir félagsins með fjárframlögum til þess máls, og á eigin vegum haldið uppi íslenzkukennslu í Winnipeg áratugum saman. Um starfsemi félagsins á því sviði fyrstu 25 árin vísast til áðurnefndra ritgerða okkar dr. Rögnvaldar um félagið. En frá þeim tíma og fram á síðari ár hefir verið haldið áfram íslenzkukennslu á Laugardagsskóla félagsins í Winnipeg. Hafði frú Ingibjörg Jónsson, núverandi ritstjóri **Lögbergs-Heimskringlu**, skólastjórnina með höndum árum saman, og rækti það starf með frábærri alúð og sambærilegum dugnaði. Naut hún í því starfi ágætrar aðstoðar margra prýðilegra kennara, meðal þeirra frú Hólmfríðar Danielson, er æfði börnin í íslenzkum söng. Frú Ingibjörg var einnig í mörg ár formaður í milliþinganefnd í fræðslumálum af félagsins hálfu, er útvegaði kennslubækur og skipulagði íslenzkukennsluna. Skylt er að geta þess, að meðan hans naut við og heilsa hans leyfði, var Ásmundur P. Jóhannsson byggingameistari aðalumsjónarmaður Laugardagsskólans og vann það verk af fágætum áhuga og umhyggju fyrir hag skólans. Þá skal þess þakklátlega minnst, að meðan hann dvaldist hér vestra, vann dr. Finnbogi Guðmundsson ötullega að íslenzkukennslu barna og unglinga, og síðan hann kom hingað vestur, hefir Haraldur prófessor Bessason einnig unnið dyggilega að sama marki, bæði með leshring um íslenzkar bókmenntir fyrir eldra fólkið og kvöldskóla fyrir yngra fólk, sem vel hefir gefizt. (Nánari frásagnir um íslenzkukennsluna fyrri og síðar á umræddu tímabili er að finna í árlegum skýrslum forseta félagsins, og í skýrslum milliþinganefndar í þeim málum og skólastjórans í **Tímariti** félagsins). Ennfremur má það ekki vera ósagt látið, að félagið skuldar miklar þakkir hinum mörgu kennurum, sem af trúnaði við íslenzkar erfðir og af áhuga fyrir viðhaldi íslenzkrar tungu hér vestan hafs og ást á henni, lögðu það á sig, ósjaldan ár eftir ár, að kenna íslenzku á Laugardagsskóla þess. Nöfn þeirra geymast í sögu félagsins í þingtíðindum þess.

En Þjóðræknisfélagið hefir eigi aðeins leitazt við að vekja áhuga yngri kynslóðarinnar á ætternislegum uppruna sínum og menningarerfðum með fræðslu í íslenzku. Forystumenn félagsins gerðu sér það snemma ljóst, að nauðsyn bæri til að hefja félagslega samvinnu við yngri kynslóð vora. Á ársþinginu 1935 var svohljóðandi tillaga frá útbreiðslumálanefnd þingsins samþykkt einum rómi: „Nefndin leggur til að reynt verið að stofna unglingafélag eða félög til viðhalds og eflingar íslenzkum bókmenntum og öðrum verðmætum í íslenzkum menningararfi. Megi störf slíkra félaga fara fram á ensku, og séu félög þessi í samvinnu við aðalfélagið og undir umsjón þess.“

Þessi viðleitni bar þann árangur, að laust fyrir þjóðræknisþingið 1938 var stofnaður félagsskapur „Young Icelanders“, er gerðist sam-

bandsdeild Þjóðræknisfélagsins þegar þá á þinginu. Tók það seinna upp nafnið „The Junior Icelandic League“, en hefir nú um langt skeið borið heitið „The Icelandic Candian Club“. Fara fundir og aðrar samkomur þess félagsskapar fram á ensku, eins og kunnugt er, en eigi að síður vinnur það, í anda móðurfélags síns og stefnuskrár sinnar, að varðveizlu íslenzkrar menningarerfða, meðal annars með útgáfu ársfjórðungsrits síns, **The Icelandic Canadian**, sem átt hefir vaxandi útbreiðslu að fagna, en ritstjórinn er nú, og hefir verið um mörg undanfarin ár, Walter J. Lindal dómari, vara-ritari félags vors. Fram á síðari ár var „The Icelandic Canadian Club“ einnig sambandsdeild í Þjóðræknisfélaginu, og í nánum tengslum við það, eins og ársskýrslur og félagatal í **Tímariti Þjóðræknisfélagsins** bera vitni.

Hefir, eins og vera ber, verið margvísleg samvinna milli Þjóðræknisfélagsins og „The Icelandic Canadian Club“, einnig margt félagsfólk hins síðarnefnda einnig í Þjóðræknisfélaginu. Sem eitt dæmi um samstarf þessara félaga, má geta þess, að á árunum 1945—46 áttu þau samvinnu um merkilegt og gagnlegt námsskeið í íslenzkum fræðum, meðal annars með fyrirlestrahaldi á ensku um íslenzk efni, undir umsjón frú Hólmfríðar Danielson, þáver. forseta „The Icelandic Canadian Club“, er hafði sér við hlið í undirbúningsnefndinni fulltrúa bæði úr félagsskap sínum og Þjóðræknisfélaginu.

Áður en skilizt er við fræðslumála hliðina á starfi félagsins, má á það minna, að félagð átti hlut að því að koma upp í Winnipeg íslenzku bókasafni félagsfólki til almennra afnota, sem áratugum saman hefir verið starfrækt af deildinni „Frón“ af hálfu félagsins, og hefir félagið veitt safninu nokkurn fjárhagslegan stuðning, en deildin annars haft mestan veg og vanda af viðhaldi safnsins og aukningu, að ógleymdum fjölda gjafabóka, sem félaginu og safninu hafa borizt úr mörgum áttum.

Þá skyldi það einnig munað í sambandi við útbreiðslumál félagsins, að það hafði lengi á dagskrá sinni, og hélt með þeim hætti vakandi, málinu um stofnun kennarastóls í íslenzku við Manitobaháskóla. Hitti þáver. forseti félagsins, séra Philip M. Pétursson, því vel í mark, er hann komst svo að orði um háskólamálið í skýrslu sinni á 30 ára afmæli félagsins 1949:

„Þetta er fjórðungsaldar draumur Þjóðræknisfélagsins að rætast, og er það góðs viti fyrir framtíðina. Íslendingar hafa haft eitthvað líkt þessu í huga frá næstum því fyrstu tíð. Það á vel við, að vér getum haldið upp á 30 ára afmlishátíð Þjóðræknisfélagsins með því að auglýsa samþykkt háskólans um að hann hafi tekið fyrsta sporið í að ganga inn á samninga um að stofnsetja þennan fyrrnefnda kennslustól.“

Einnig hefir Þjóðræknisfélagið stutt háskólamálið fjárhagslega. Jafnframt skyldi það þakklátlega munað, að það var einn af allra ótrauðustu og ágætustu forystumönnum félagsins, Ásmundur P. Jóhannsson, sem stærstan fjárhagslegan

skerf lagði til stofnunar háskólastólsins.

Á þjóðræknisþinginu 1958 var einnig samþykkt einum rómi tillaga, sem þáverandi forseti og ritari félagsins flutti í umboði stjórnarnefndarinnar, þess efnis, að félagið beiti sér fyrir því, að komið verði upp í íslenzka bókasafninu við Manitobaháskóla sérstakri deild rita um og eftir dr. Vilhjálm Stefánsson landkönnuð. Samþykkt var einnig að leggja fram nokkurt fé til bókakaupa fyrir slíka deild. Er hún þegar orðinn merkur þáttur háskólabókasafnsins.

**Útgáfumál**

Í rauninni eru útgáfumál Þjóðræknisfélagsins m e g i n þ á t t u r í fræðslustarfsemi þess, því að öll hafa þau rit, sem félagið hefir sjálft gefið út eða átt einhverja hlutdeild að, miðað í þá átt að fræða lesendur um íslenzka tungu, sögu og bókmenntir, í fáum orðum sagt, um menningarerfðir vorar í heild sinni. Rita þeirra, sem út höfðu komið á vegum félagsins eða með aðstoð þess, er nægilega getið í ritgerð minni í tilefni af aldarfjórðungsafmæli þess, og verður hér því farið fljótt yfir sögu hvað þau snertir.

Um sex ára skeið (1934—40), að haustinu og vetrinum til, gaf félagið út barnablaðið **Baldursbrá**, undir ágætri ritstjórn dr. Sigurðar Júl. Jóhannessonar, en ráðsmaður blaðsins öll árin var Bergthór E. Johnson. Varð rit þetta vinsælt og reyndist notasælt við íslenzkukennslu félagsins.

Félagið átti einnig hlut að þýðingu og útgáfu merkisritsins **Þjóðarréttarstaða Íslands**, eftir sænska þjóðréttarfræðinginn og Íslandsvininn dr. phil. Ragnar Lundborg. Var þýðingin upprunalega prentuð í **Tímariti** félagsins, en síðan sérprentuð í bókaformi. Lýsir útgáfa þessi vel áhuga forystumanna félagsins á sjálfstæðisbaráttu heimaþjóðarinnar, er einnig átti sér sterk ítök í hugum félagsfólks almennt. Mörgum árum áður hafði félagið veitt ríflegan fjárstyrk til útgáfu Íslandssögu (**History of Iceland**, 1924) eftir norsk-ameríska sagnfræðinginn dr. Knut Gjerset.

Það var einnig samkvæmt áskorun, sem fram kom á ársþingi félagsins 1939, að hafizt var handa um útgáfu **Sögu Íslendinga í Vesturheimi**. Var sérstök framkvæmdanefnd valin til þess að hafa málið með höndum, og var dr. Valdimar J. Eylands hinn upphaflegi formaður, en síðan þeir dr. Runólfur Marteinsson og séra Philip M. Pétursson; ritari nefndarinnar var dr. Sigurður Júl. Jóhannesson. Var mál þetta síðan til meðferðar á mörgum ársþingum félagsins, er studdi fjárhagslega útgáfu fyrstu tveggja bindanna. En öðrum ber þó aðallega heiðurinn af því, að hafa staðið straum af útgáfu sögunnar og ráðið því verki farsællega til lykta. Má þar fyrst nefna Soffanías Thorkelsson verksmiðjustjóra, sem ábyrgðist allan kostnað við fyrsta bindi sögunnar og studdi útgáfu ritsins með mörgum hætti, þessu næst sjálfboðanefnd velunnara málsins, sem tók við málinu af félaginu og sáu um útgáfu 2. og 3. bindis og sölu þess vestan hafs; formaður þeirra nefndar var Guðmundur F. Jónasson forstjóri, en Jóhann

G. Jóhannson kennari ritari, og síðast en ekki sízt Menntamálaráð Íslands, er annaðist útsölu fyrri bindanna á Íslandi og sá um útgáfu tveggja seinustu bindanna. Skuldum vér Jónasi Jónssyni ráðherra miklar þakkir fyrir afskipti hans af þessu útgáfumáli, eins og raunar fyrir svo margt annað oss til handa Íslendingum vestan hafs. Eins og kunnugt er, samdi Þorsteinn Þ. Þorsteinsson rithöfundur fyrstu þrjú bindi sögunnar, en dr. Tryggvi J. Oleson prófessor tvö síðustu bindin. (Annars vísast til þingtíðinda félagsins frá þeim árum um sögumálið, sérstaklega til skýrslu nefndarinnar 1949 og til skýrslu forseta 1954).

Ásamt „The Icelandic Canadian Club“, átti félagið einnig hlut að útgáfu fyrirlestrarsafnsins **Iceland's Thousand Years** (1946), er út kom undir ritstjórn Skúla Johnson prófessors, en ofannefnd félög höfðu, eins og fyrr getur, átt samvinnu um fræðslunámsskeiðið þar sem fyrirlestrarnir voru haldnir, og stjórnarnefndarfólk Þjóðræknisfélagsins flutt marga þeirra. Hefir erindasafn þetta fengið ágæta dóma og náð miklum vinsældum. Hér má bæta því við, að á síðasta ársþingi sínu ákvað Þjóðræknisfélagið að styðja fjárhagslega útgáfu **Sögu Íslendinga í Manitoba** eftir Wilhelm Kristjánsson kennara.

Allmörg hin síðari ár hafði Þjóðræknisfélagið stutt fjárhagslega vikublöðin íslenzku, og hefir, eins og sjálfsagt var, haldið þeirri styrkveitingu áfram síðan blöðin sameinuðust. Verður aldrei of mikil áherzla á það lögð, hver líftaug vikublað vort hið íslenzka er í allri þjóðræknislegri og félagslegri viðleitni vorri hér í álfu, sameiningarafl vor á meðal innbyrðis og brú yfir álana milli vor og ættþjóðarinnar. Þjóðræknisfélagið hefir einnig átt ótrauða stuðningsmenn þar sem voru fyrrv. ritstjórar blaðanna, þeir Einar P. Jónsson skáld og Stefán Einarsson, og gegnir vissulega sama máli um núverandi ritstjóra frú Ingibjörgu Jónsson, sem margsýnt hefir í verki, í ræðu og riti, heilhuga stuðning sinn við Þjóðræknisfélagið, málstað þess og önnur menningarmál vor.

Er þá komið að merkasta og mikilvægasta þættinum í útgáfumálum félagsins, en það er útgáfa ársrits þess, **Tímarits Þjóðræknisfélags Íslendinga**, frá upphafi vega og fram á þennan dag. Var aðdragandanum að stofnun ritsins, stefnu þess og útkomu fram að þeim tíma all ítarlega getið í ritgerðum okkar dr. Rögnvaldar um félagið. En, eins og kunnugt er, var hann ritstjóri **Tímaritsins** frá byrjun og til dauðadags (1940). Var Gísli Jónsson skáld þá kosinn ritstjóri, og skipaði þann sess einn saman fram til ársins 1958, en síðan hafa þeir hann og Haraldur Bessason prófessor verið ritstjórar sameiginlega. Liggur það í augum uppi, hve mikla þakkarskuld félagið á Gísla Jónssyni að gjalda fyrir prýðilega ritstjórn hans áratugum saman, og jafn ágætlega hefir verið haldið í horfi um efnisval og alla útgerð ritsins síðan þeir hann og Haraldur prófessor tóku sameiginlega við ritstjórninni.

Efnisskrá ritsins ber því vitni, að það hefir frá byrjun náð vel til-

gangi sínum sem málgagn Þjóðræknisfélagsins, verið bæði fræðandi og menntandi, eins og slíku riti sæmir, flutt jöfnum höndum laust mál og ljóð. Vandað hefir einnig verið til innihaldsins, enda hafa flestir kunnustu rithöfundar og helztu skáld Íslendinga vestan hafs lagt ritinu til efni, og auk þess ýmsir þjóðkunnir rithöfundar og merkisskáld heima á ættjörðinni.

Harla fjölskrúðug er því sú mynd, sem brugðið er upp í ritinu af vestur-íslenzkum bókmenntum og menningarlífi. Ekki má heldur gleyma því, að ritið hefir mikið sögulegt gildi, því að innan spjalda þess, í þingtíðindum Þjóðræknisfélagsins, geymist starfssaga þess félagsskapar, sem enginn mun neita, að orðin sé ærið merkur þáttur í félagsmálasögu Íslendinga í Vesturheimi. Þá er um ræðir sögulegt gildi **Tímaritsins**, má bæta því við, að síðan **Almanak Ólafs S. Thorgeirssonar** hætti að koma út, hafa þættirnir „Helztu viðburðir“ og „Mannalát“ meðal Íslendinga í Vesturheimi, er áður birtust í **Almanakinu**, komið út í **Tímaritinu**, og hefir dr. Richard Beck tekið þá saman, eins og hann gerði áður á annan áratug, meðan **Almanaksins** naut við.

Vegna aukins prent- og útgáfukostnaðar hefir útgáfa ritsins á síðari árum orðið félaginu mjög þungur baggi fjárhagslega. Með það fyrir augum að halda stuðningi sem flestra auglýsenda í ritinu og ná til sem flestra lesenda, var sú tilbreytni hafin (að undangenginni samþykkt þjóðræknisþingsins árið áður) á ritinu í fyrra að birta nokkurt lesmál um íslenzk efni á ensku máli. Er þess að vænta, að þeirri breytingu verði vel tekið og að hún nái tilgangi sínum.

En því til sönnunar, hve vel hefir tekizt um útgáfu ritsins, má á það benda, að það hefir fyrir löngu hlotið þann vitnisburð hinna dómbærustu manna í þeim efnum, að það eigi sess í hópi merkustu tímarita, sem nú koma út á íslenzku. Má finna þeim ummælum stað í fjöldamörgum umsögnum um ritið fyrr og síðar, þó að eigi verði það nánar rakið hér.

**Ýmisleg menningarmál**

Eins og frá er skýrt nánar í rit gerð minni um Þjóðræknisfélagið 25. ára, hafði það fram að þeim tíma, auk þeirra starfa, sem þegar hefir verið lýst, látið sig skipta, eða haft forgöngu um, margvísleg menningarmál varðandi sögu eða samtíð Íslendinga í Vesturheimi. Hvað fortíðina snertir, hefir það haft með höndum söfnun sögugagna og þjóðlegs fróðleiks, með nokkrum árangri, ennfremur söfnun ýmissa íslenzkra muna, er menningarsögulegt gildi eiga. Er milliþinganefnd í minjasafnsmálinu enn starfandi, mörg hin síðari ár undir ötulli forystu frú Marju Björnsson, og er það hreint ekki orðið lítið eða ómerkilegt, sem safnazt hefir af ýmsum minjagripum. Eigi hefir þó ennþá fengizt heppilegur eða varanlegur staður fyrir geymslu þeirra, þar sem þeir geti jafnframt verið til sýnis almenningi, en vonandi, að úr því rætist áður langt líður.

Þá hefir félagið átt sinn drjúga þátt í því að halda á lofti minningu íslenzkra landnema vestan hafs og

öndvegisskálda vorra beggja megin hafsins. Þannig efndi stjórnarnefnd félagsins til hátíðarhalds 12. okt. 1950 í tilefni af 75 ára afmæli íslenzka landnámsins í Manitoba og komu fyrstu Íslendinga til Winnipeg í október 1875. Á þessari sögulegu hátíðarsamkomu flutti Hannes Kjartansson, aðalræðismaður Íslands í New York, kveðjur og árnaðaróskir íslenzku þjóðarinnar og las upp símskeyti frá forseta Íslands, herra Sveini Björnssyni.

Félagið átti einnig nokkurn þátt í því, að söguskáldinu vinsæla, Jóhanni Magnúsi Bjarnasyni, var sumarið 1948 reistur minnisvarði í Elfros, Sask. Annars áttu kvenfélagið í Elfros, ásamt dr. Kristjáni Austmann, aldavini skáldsins, og þjóðræknisdeildin „Iðunn" í Leslie, Sask., aðalþáttinn í því, að skáldinu var reistur þessi minnisvarði. Af hálfu deildarinnar komu þar mest við sögu, þeir traustu velunnarar félags vors, Páll Guðmundsson í Leslie og Rósmundur Árnason í Elfros.

Þjóðræknisfélagið gekkst einnig fyrir því, að aldarafmæla þeirra Stephans G. Stephanssonar og Gests Pálssonar var minnzt með virðulegum hætti, og hélt í samvinnu við deildina „Frón" sambærilega minningarsamkomu í tilefni af 150 ára afmæli Jónasar Hallgrímssonar.

Sé horfið til samtíðarinnar mun mörgum hinna eldri enn í fersku minni afskipti félagsins af hinu svokallaða „Ingólfsmáli", sem bæði var réttlætis- og mannúðarmál (Smbr. kaflann um það í fyrrnefndri ritgerð minni). Mjög var það einnig í anda rótgróinnar íslenzkrar íþróttamannshugsjónar, að félagið studdi íþróttir árum saman, enda var íþróttafélagið „Fálkinn" í Winnipeg í mörg ár sambandsdeild félagsins.

Þá er eigi síður ánægjulegt að minnast þess brautargengis, sem félagið veitti Björgvin Guðmundssyni tónskáldi á sínum tíma, með almennri fjársöfnun í námssjóð honum til styrktar, er hann var að brjótast áfram á listamannsbrautinni. Í sama anda vann félagið á síðari árum, er það átti hlut að söfnun fjár í námssjóð til styrktar listakonunni, Miss Agnes Sigurdsson, píanóleikara, er hún stundaði framhaldsnám í New York, en ekki getur fegurra eða þarfara þjóðræknisverk heldur en að blása þeim nokkurn byr undir vængi, sem sækja fram á listabrautinni og líklegir eru til þess að auka á hróður ættstofns vors með afrekum á því sviði, um leið og þeir auðga líf annarra með list sinni.

Loks er það eitt mál, sem samtímann varðar og lengi var á dagskrá félagsins, en það var bygging samkomuhúss í Winnipeg fyrir Íslendinga. Var milliþinganefnd starfandi í því máli ár eftir ár og miklar umræður um það á ársþingum félagsins, og beitti frú Björg Ísfeld sér fyrir því af brennandi áhuga. Eftir ítarlegar rannsóknir og umræður, reyndist þó eigi fært að koma málinu í framkvæmd. En þökk sé þeim, sem báru það fyrir brjósti og að því unnu, af hugsjónaást og heilum huga, þó að sá draumur þeirra yrði eigi að veruleika. (Frekari gang málsins geta þeir, sem vilja, rakið í þingtíðindum félagsins).

nú ekki svo mikill áhugi fyrir íslenzkum nútímabókmenntum hér á Norðurlöndum sem ætti að vera, en þetta er þó tilraun til að sýna og sanna að „andinn lifir æ hinn sami“ í okkar litlu þjóð. J. V. Christensen fór nú svo langt í ritdómi sínum, að hann vildi láta prenta kafla úr þessum ritgerðum upp í löggiltar kennslubækur fyrir skóla hér í Danmörku, en það var nú ekki gert og mun víst ekki verða gert úr þessu.

Mér er ekki mikið um að hæla sjálfum mér, enda á það sjaldan við, en hér vildi ég þó benda á þessa ritgerð, og bið þig afsökunar á því — afsökun mín er líka sú, að þú hefur óskað þess, að ég segði þér frá skáldritum mínum, og ritgerðin stendur dálítið í sambandi við þau.

---

# Sléttubönd og hringhendur

**Vorvísa**

Fæðist vindur hláku hlýr
hæðir rindar titra.
Glæðist yndi fönnin flýr
Flæðin linda glitra.

**Vetrarnætur**

Blíðu sólar þrýtur þrek
þíðu skjólin fenna.
Hríðargjólu frostin frek
fríðu blómin spenna.

**Árdegi í Vatnabyggð**

Roði lýsir austri í
enda vísar bætur.
Ljósadísir dags á ný
úr döfinni rísa á fætur.

Glóa hreinu himintjöld
horfin meinin nætur.
Syngur á greinum fugla fjöld
fold í leyni grætur.

Morgunblær í laufgum lund
ljúfa hrærir strengi.
Honum kær er heiðrík stund
hörpu slær hann lengi.

Blakta strá og blöð á grein
blómum stráðum ögur.
Angar fáguð akurrein
öxin há og fögur.

Fé um leitin fer á beit
frjóvir reitir gróa.
Fáar sveitir fergi eg leit
farsæld veitir nóga.

Vel þér blómafaldur fer
fegurð þinni hæfa.
Blessist allt sem býr hjá þér
byggðin kostagæfa.

**Ásgeir Gíslason.**

# KVÖLDRÆÐA

Langur dagur leið að kveldi,
lýsti sól — og gerir enn;
fjöll eru roðin aftans eldi,
enda náttmál komin senn.

Dagur er til dáða' og starfa.
Dimman unz að leggst á jörð
sérhver vinni þjóð til þarfa.
Það er skipun bein og hörð.

Veröld öll er yrkisgarður,
allra sameign reiknast hún;
og ef reitur er þar harður,
úr honum samt skal gera tún.

Ég var sendur, sagt að vinna:
Sjá, þar bíður starfið þín.
En hvar eru verkin handa minna?
Hver fær bent á afrek mín?

Vel ég sá og þekkti' að þörfin
barna var í hverri átt.
En lítil urðu' og lakleg störfin,
mín liðsemd smá — ég gat svo fátt.

Þessu verra þó er annað:
Þegar bókin skoðuð er,
mun það verða sýnt og sannað
að sveikst ég um og dró af mér.

Mörg er stund að engu orðin,
eyðan verður nú ei fyllt.
Ávöxtunar er þá forðinn
orðinn skuld ef fénu' er spillt.

Verst af öllu — verra' en þetta —
var þó hitt: ég gerði rangt;
freklega vék ég frá því rétta,
fjarska' er bilið stundum langt.

Oftast réð því helber heimska,
ég hugði rétt það ekki var;
stundum líka grátleg gleymska,
ég gleymdi' að hugsa eins og bar.

Stundum rangt af viti' og vilja
vann ég — freisting tók þá völd.
Það er erfitt þetta' að skilja,
en þessa munu hörðust gjöld.

Að mér kynni' eg ekki' að stjórna
er, því miður, helzti rétt,
og meiru átti eg að fórna,
ekki þó að væri létt.

* * *

Við höfum báðir sannleik svikið,
svikið margoft, ég og þú,
og því skuldum, skuldum mikið.
Um skuldina krafðir munum nú.

Við höfum gert það minnst er máttum,
er myrtan létum helgan sann;
við höfum þagað er við áttum
einarðlega' að verja hann.

Það er víst, að þöglu svikin,
þau eru verri' en annað flest;
mann frá sönnum sæmdum vikinn
sýna þau jafnan einna bezt.

* * *

Afleiðing af orsök fæðist,
enginn lögum þeim fær breytt;
því er von að hana hræðist
hver sá, gagn er vann ei neitt.

Hegning að mín hljóti' að bíða
hygg ég ekki vafamál.
En ekki mun um eilífð svíða
eldur kvala mína sál.

Í hliði dauðans sjónum sálar
sýnt mun allt er lifði' eg hér.
Hönd á vegginn hlutlaust málar.
hvikar ei þó að blöskri mér.

Þetta sama þín mun bíða
— það er lögmál fast og strangt —
þó máske hafir minnu' að kvíða,
minna' að gert þú hafir rangt.

* * *

Hvernig mun þá hegning varið?
Hér er spurning næsta brýn.
Öruggt verður ekki svarið,
of skammt hrekkur þekking mín.

Framför ef var innsta þráin,
enda takmark lífsins sjálfs,
mun þá ekki einmitt spáin
okkur svara — minnst til hálfs?

Það er ljóst að þar af fljóti
þroskatöf að rækja' ei dyggð,
rökin segja' að með því móti
muni farsæld nokkuð styggð.

Þung mun refsing — það má skilja —
þessi töf á efling manns;
víst mun andstætt æðsta vilja
að við brjótum lögmál hans.

En er það lögmál er ég þekki
algilt — hver má segja' um það?
„Metaskálar alvalds ekki
oss eru kunnar", skáldið kvað.

Enn ég spyr, hvort eitthvað gildi,
um er dæmt skal lífsins tafl,
að ég gott að vísu vildi,
viljann þó að brysti afl.

Svar að vísu veit ég eigi,
en vænti' að jákvætt muni það.
Og ekki kvíði eg þeim degi
er ég breyta skal um stað.

Að vita' hið rétta er mér annast;
eðlisrökin virðast sterk.
Um hegning okkar hygg ég sannast
að hún mun' okkar sjálfra verk.

**Sn. J.**

# Bækur

**Kalevala**
**Karl Ísfeld**
**íslenzkaði.**

Endur fyrir löngu eignaðist ég alþýðlega Söngvabók, sem kennd var við Skandinavíu. Þar eru meðal annara finnsk lög við hendingar úr Kalevala. Ég hafði þá óumræðilega löngun til að finna lag við Sjómannasöng Jónasar: „Reisum tré svo renni að ósi rangajór, því langar stórum". — Ég fann strax að hér var í eðli sínu um hrynhendan hátt að ræða, þótt innrím og endarím vantaði, sem veldur hinu volduga fossfalli íslenzkrar hrynhendu. En lögin voru því miður lítilsvirði — litlu eða engu snjallari en rímnalögin íslenzku, enda kölluð **Ruhna**, sem bendir eitthvað í sömu áttina.

Þetta voru mín fyrstu kynni af Kalevala. Að vísu hafði ég lesið eitthvað um Elías Lönnrot, þann er safnaði þessum finnsku þjóðvísum og sneið þau og saumaði saman í einn heildar kvæðabálk, en þar við sat. Enda áttu Finnar engar skrásettar bókmenntir fyrir þann tíma á öðru máli en sænsku. Nú eiga þeir mörg ágæt ljóðskáld á báðum málunum. Og stærsta tónskáld Norðurlanda, að Grieg látnum, var Finninn Sibelius.

Og svo var það einn bjartan dag fyrir rúmu ári síðan, að ég átti erindi inn á skrifstofu Bókaútgáfu Menningarsjóðs í Reykjavík. Eftir stutt ánægjulegt viðtal var ég leiddur inn í bókahlöðuna og boðið að kjósa mér að gjöf hvaða bók eða bækur, er ég helzt girntist að eiga. Íslenzka þýðingin af Kalevaka lá þar á borði, var síðara bindið þá rétt nýkomið af pressunni. Þarna fékk ég bók, sem ég hafði aldrei áður séð, í snilldar þýðingu eftir skáld, er ég hafði aldrei heyrt nefndan á nafn. Hann hét Karl Ísfeld og dó á bezta aldri, sjö blaðsíðum áður en þýðingin var fullgjör.

Þessar bækur eru himnesk gjöf til prentara. Letrið er stórt og fallega skorið, myndskreytingin, ásamt upphafsstöfunum, í líkingu forns tréskurðar, pappírinn hvítur og hreinn og ekki of þykkur, bandið traust og vandað.

Ekki er að sjá úr hvoru málinu þýðingin er gjörð — sænsku eða finnsku, en bæði eru málin í rauninni móðurmál Finna. Þýðingin virðist afburða snjöll — íslenzkt rím og hrynjandi, sem að líkindum ekki er að finna í frumkvæðinu, sumt hrynhent og sumt með endarími eingöngu.

Að sjálfsögðu hafa þessi þjóðsagnakvæði misst einhvers í að frumleika við það að vera safnað og skrásett svo seint á tímum (um 1830) eftir að kristin og önnur seinni tíma áhrif höfðu blandazt inn í þau. En samt er nægilegt eftir aftan úr svörtustu forneskju til að gefa þeim hrollkenndan ófreskis blæ. Söguhetjurnar fæðast og vaxa í jörð og á eins og ormar, eða liggja í móðurkviði svo árum skiftir í hafinu, eins og hvalir. Þetta kastar nýju ljósi á sumar okkar fornaldarsögur, sem svo tíðrætt er um finngálkn, seið-

konur og galdramenn á Finnmörk og í Jötunheimum.

Aftast í síðara heftinu er all löng og greinagóð ritgjörð um Kalevala, uppruna þess, breytiþróun og björgun frá tortímingu, ásamt um íslenzku þýðinguna og höfund hennar, eftir Sigurð A. Magnússon, blaðamann og rithöfund. Hygg ég að hann fari með rétt mál, er hann segir, að þýðingin sé með meiri glæsibrag en frumkvæðið, eftir þeim smáklippum að dæma, er ég hefi séð á sænsku og ensku. Er það reyndar ekki að undra, því enginn nema Íslendingur kann að glíma við straumnið hrynhendunnar.

Ein málsgrein er þar þó nálægt niðurlagi greinarinnar, sem ekki má fara óátalið. Hún hljóðar svo:

„Bandaríska ljóðskáldið H. W. Longfellow hafði Kalevala að fyrirmynd, þegar hann reyndi að semja amerískt þjóðkvæði, Hiawatha, en þar brást honum bogalistin.“

Svona staðhæfingu á maður sízt von á frá merkum rithöfundi. Maður freistast til að halda, að hann hafi aldrei lesið Hiawatha, en farið eftir frásögn einhvers óhlutvands skriffinns. Þegar Longfellow var við nám á Norðurlöndum varð hann eflaust hrifinn af stíl og hrynjanda Kalevala ljóðanna og hugkvæmdist, að yrkja álíka sagnabálk útaf þjóðsögnum frumþjóða Vesturheims. Hefði víst fáum dottið til hugar að nefna það stælingu, ef annar háttur hefði verið notaður, því efnið var annarstaðar frá og ólíkt.

Nú á dögum hafa víst fæstir þolinmæði til að lesa löng söguljóð. En fyrir og um miðja síðustu öld var allt öðru máli að gegna. Menn gleyptu við söguljóðum Moore's, Scott's, Tennyson's og Tegners. Longfellow var þar heldur ekki neinn viðvaningur. Hiawatha, sem var hans annað eða þriðja söguljóð, öðlaðist strax þjóðarhylli. Stórkarlar Bandaríkjanna, Emerson, Hawthorne og O. W. Holmes, hrósuðu kvæðinu og voru allir sammála um, að enginn hefði túlkað betur eða á listrænni hátt söngva og sagnir Indíánanna en Longfellow gerði í Hiawatha. Merk tónskáld, svo sem Stoepel (nú að mestu vanræktur) og hálf enski blámaðurinn Coleridge Taylor, sömdu við Hiawatha hin ágætustu tónljóð, og heil leikhúskvöld voru tileinkuð kvæðinu. Á Englandi öðlaðist kvæðið álíka hylli.

Að vísu fylgir Longfellow fullnákvæmt stíl og orðalagi Kalevala, en að kalla það mislukkaða tilraun er álíka sanngjarnt og að segja, að Jónasi, Matthíasi, Stefáni frá Hvítadal og ótal fleirum hafa „brugðizt bogalistin“ að því að þeir „reyndu“ að yrkja sum sín beztu kvæði undir Liljulagi Eysteins munks. Annað er það sem sumir hneykslast á í Hiawatha og úir og grúir af í Kalevala, eru endurtekning sömu hugsunar og efnis með lítið eitt breyttu orðalagi og sé ég ekki betur en að það fari yfirleitt vel og gefi frá sögninni meiri þunga. Dæmi af handahófi úr Hiawatha:

„Handsomest of all the women —
in the land of handsome women“.

Og þetta gripið út úr Kalevala:

„Mælti þvínæst þessum orðum,
þessi orð af vörum mælti“.

Í mörgum fegurstu og skáldlegustu ritum biblíunnar er samskonar stíll algengur, og mundi víst enginn dirfast að telja það til lýta.

* * *

**Þóroddur Guðmundsson:**

**frá Sandi**

**Sólmánuður**

**Ljóð**

Þegar ungir skáldhneigðir menn fyrst fara að fella orð sín og hugsanir í stuðla, verða yrkisefnin að jafnaði það sem fyrir augu og eyru ber — fjöll og dalir, fossar og ár, sólskin og suðandi vindar. Með árum og vaxandi þroska og breyttu hugarfari víkkar sviðið — sýnirnar færast inn á við jafnframt, svo að stundum sjá blindir undrasýnir (Milton) og heyrnarlausir festa ódauðleg hrynjandi tónljóð á bókfell ungum og öldnum til undrunar (Bethoven).

Þetta er með vissu fjórða ljóðabók Þórodds. Hin fyrsta lýsir nokkurn veginn þroskuðu skáldi, svo á undan henni hafa hlotið að vera kynstur æskuljóða, eða ef eitthvert hefir slæðzt þar inn, þá hafa þau verið endurbætt. Svo rekur hver bókin aðra, og er þetta fjórða bókin; ber hún hið bjarta nafn Sólmánuður, sem ótvírætt bendir til þess, að enn er sól og sumar í huga skáldsins. Í einlægni talað finnst mér minnstu muna um ágæti þessara bóka — í þeim hefi ég hvergi fundið lélegt kvæði — en það er ekki laust við, að manni finnist viðhorfin hafi breytzt, innsýnin aukizt, hjartað hlýnað, hugarfarið mildazt, sem varð orsök til inngangshugleiðinganna hér í upphafi máls.

Eftir öllum sólarmerkjum að dæma virðist skáldið nú á miðju aldursskeiði; ber þess ekki sízt merki hið yndislega kvæði „Ég heyrði hörpuslátt“, sem lítur með tregablandinni undiröldu til liðinna ára, en um leið með fögnuði upp að „lífsins Ljósufjöllum“.

Þessi bók er af sömu stærð og hinar fyrri ljóðabækur höfundarins, en í henni eru engar þýðingar. Frágangur allur hinn snyrtilegasti og víst engar prentvillur.

* * *

**Árni G. Eylands:**

**Brattahlíð**

**Kvæði**

Þegar ég var síðast heima á Íslandi stakk vinur okkar, Árni G. Eylands, snotru kvæðakveri í vasa minn, því þriðja sem hann hefir látið frá sér fara. Bókin heitir Brattahlíð eftir sumarbústað hans við Þingvallavatn. Þangað átti ég heimboð, sem fórst fyrir sökum óvenjulegs lasleika. Árni býr nú lengst ársins með konu sinni úti í Noregi, en ekki er það mjög á að sjá í kvæðunum. Þau eru svo að segja öll um Ísland, íslenzkar sagnir og sögur og um áhugamál hans þar. Fjöldi kvæðanna er einkennilega kveðinn á snjöllu alþýðumáli. En í þeim er skrítilegur tvískinnungur, sem sjaldan ber á hjá öðrum skáldum. Hann er einbeittur framfaramaður, sem heimtar verklega sem andlega framför þjóðarinnar. En samt kennir allvíða undarlegs saknaðar þess, er fyrr var og horfið er úr lifnaðarháttum og viðhorfi fólks.

Bókin er prentuð í 150 tölusettum eintökum og því í fárra höndum, en

hún er góð viðbót við hin tvö fyrri ljóðakver höfundarins. Því miður hafa prófarkir ekki verið grandgæfilega lesnar.

* * *

**Snæbjörn Jónsson:**

**Vörður og vinarkveðjur**

**Greinasafn**

Í síðastliðinn mannsaldur hefir Snæbjörn Jónsson verið að skrifa og yrkja um alla skapaða hluti í jörð og á og það sem í himnunum býr. Hann lætur sér fátt óviðkomandi. Það mætti nærri segja, að hann sé rödd hrópandans — hann sé vandlætarinn, sem tekur sér nærri allt sem honum finnst aflaga fara með þjóð sinni. Eigi að síður er hann fundvís á það sem betur fer.

Það fer því ekki að ólíkindum, að í þessari tæplega 200 blaðsíðu bók séu um aðeins lítinn hluta að ræða af ritgerðum hans og erindum. Ekkert skal um valið sagt. Það ætti ekki að vera af verri endanum, þar sem höfundurinn sjálfur átti hlut að máli ásamt hinum ágæta fræðimanni Finni Sigmundssyni bókaverði. Samt þori ég að fullyrða, að margt jafnhátt hafi verið sniðgengið. En þesshháttar allt fer nú að vísu eftir smekknæmi og hugarfari hvers lesanda. Honum verður tíðrætt um bækur og bókaútgáfur og það smekkleysi og kæruleysi, sem þar á sér á tíðum stað, enda hefir hann jafnan til fyrirmyndar hið bezta í enskri bókagerð.

Sumar markverðustu greinarnar fjalla samt um önnur og dýpri efni, svo sem skáld og verk þeirra og áhrif á samtíðina, og að minnsta kosti ein beinlínis um sálræn efni, auk ívitnana í þá átt á öðrum stað. Enn önnur er um svipi og afturgöngur, og virðist höf. ekki efa, að slíkt geti átt sér stað.

Síðari og lítið eitt styttri hluti bókarinnar e r u æviminningar merkra manna. Gallinn á þesskonar greinum er oft sá, að þær hlaða oflofi á þann dána um skör fram — gera úr honum stærri og betri mann og stundum allt annan mann en þann er við þekktum. Mönnum finnst að gallarnir eigi að gleymast. En naumast þarf að taka það fram, að slíkt er ekki ráðvönd sagnfræði, þótt í góðu skyni sé gjörð. Hér virðist þó öllu í hóf stillt. Mikið hefði gildi og verðmæti bókarinnar aukizt, ef útgáfufélagið hefði séð sér fært, að láta myndir allra þessar dánu manna fylgja.

Skáldið Tómas Guðmundsson skrifar stuttan formála og getur þar hinnar fjölþættu bókmenntastarfsemi höfundarins — frumsamið mál og þýtt — auk útgáfu fjölda bóka eftir ólíkustu höfunda. Sjálfur skrifar Snæbjörn formála í ljóði fyrir hvorum kaflanum fyrir sig — báða vel kveðna og í samræmi við efni þeirra.

Að endingu verð ég að leyfa mér svolitla hótfindni. Á bls. 119 byrjar einkar falleg grein um dóttur Einars Benediktssonar, eða réttara sagt skáldskap hennar. Greinin er nefnd „Eikin og eplið“, sem bendir á hinn misskilda málshátt: „Sjaldan fellur eplið langt frá eikinni“. Eikin gefur af sér akarn, sem er hneta, en apaldrar (eplatré) bera epli. Reyndar verður Gröndal, sem vissi þó betur, sú skyssa á, að gera björkina að barrtré.

Ógát er það á bls. 67, að þýðandi vísunnar eftir Bólu-Hjálmar, dr. G. J. Gíslason, hafi komið fulltíða frá Íslandi og því ekki kunnað ensku. Hann var vel metinn læknir í Norður Dakota, ólst þar upp og fékk alla sína menntun á ensku. Enda ber vísan einmitt þess merki, að hann kunni ekki íslenzkt-skáldamál — hefir að líkindum aldrei lesið Snorra eða íslenzkar rímur, og því misskilið kenninguna „leturs lönd". Er þýðing Craigie's óneitanlega betri, þótt blómangan Hjálmars hverfi. G. J.

* * *

Gísli Jónsson, **Haugaeldar, Ritsafn,** Inngangur eftir dr. Stefán Einarsson, Bókaútgáfan Edda, Akureyri.

Þegar ritdómur þessi birtist, hefir höfundur ofangreinds verks fyllt áttunda ár hins níunda tugar. Þess vegna er það engin goðagá að nefna hann aldursforseta íslenzkra skálda og rithöfunda báðum megin hafs.

„Haugaeldar" er fjölskrúðugt ritgerðasafn. Fyrsti hlutinn fjallar um tónskáld, annar hluti um flest milli himins og jarðar, sá þriðji um samtíðarmenn lífs og liðna. Lokakaflinn hefir að geyma formálsorð bóka. Flestar ritgerðanna hafa áður birzt í blöðum og tímaritum nema upphafsritgerð þriðja þáttar og jafnframt lengsta greinin í bókinni, „Heiðarbúinn og ættmenn hans".

„Haugaeldar" er stór bók eða fjögur hundruð blaðsíður. Því fer þó fjarri, að höfundur hafi gerzt langorður, heldur eru skrif hans öll gagnorð, stílhrein og án allra endurtekninga. Heildareinkenni safnsins eru stíllipurð, sem kalla má næsta fágæta, vandvirkni og samúð með viðfangsefnum. Markmið höfundar er tvenns konar: að fræða lesendur og bregða upp fallegum myndum. Neikvæð gagnrýni á sér hvergi friðland í bókinni.

Undirrituðum er gjarnt að líta á Ritgerðasafn Gísla Jónssonar sem heimild um hann sjálfan og samtíð hans. Austfirzkur uppruni höfundar kemur víða fram, og öruggt sönnunargagn höfum við hér um það, að Austurland og raunar allt Ísland sleppa ekki tökum á niðjum sínum, þótt þeir dvelji langa ævi í miklum fjarska við æskustöðvar.

Veraldlegum auð var ekki til að dreifa á æskuheimili höfundar í Jökuldalsheiðinni. Ljóst er það þó, að ófáir geislar mennta og menningar smugu snemma um glugga og gættir á Háreksstöðum, og miklum mun hefir tungutak á því heimili verið íslenzkara en tíðkaðist meðal sumra löglærðra Hafnarstúdenta.

Þegar Gísli Jónsson sá dagsins ljós, var Ísland að þokast út úr miðöldunum og íslenzka þjóðin að vakna til meðvitundar um, að móðurmál sitt væri hvorki ill danska né bjöguð íslenzka með latneskri orðaskipan, heldur tunga Jónasar og þeirra manna, sem skrásettu sagnir um útilegumenn og drauga og aðrar þjóðlegar vættir. Þetta tungutak hlaut höfundur „Haugaelda" að erfðum, og ætla ég það mikla ofrausn að reyna að lagfæra það eða leiðrétta. Vænlegra mun reynast að lesa ritgerðir Gísla sem vandlegast og reyna að nema af þeim eftir föngum.

Gísli Jónsson brautskráðist frá Möðruvöllum skömmu fyrir síðustu

aldamót og er því einn hinna fáu núlifandi Möðruvellinga. Möðruvallaskóli skipar í mínum huga svipaðan sess og Bessastaðaskóli. Möðruvellingar voru synir hins uppvakta Íslands, eldheitir „upplýsingarmenn", sem biðu ekki boðanna um að uppfræða landslýðinn, en fóru sumir um landið þvert og endilangt boðandi fagnaðarerindi sitt. Þeir urðu bókmennta- og félagsmálafrömuðir og langlífir og mikilsvirtir í landinu.

Gísli Jónsson er ósvikinn Möðruvellingur, og Möðruvallaandann flutti hann með sér til Ameríku, og hefir hann æ síðan miðlað öðrum af þeirri auðlegð. Það er bjargföst sannfæring hans, að bókmenntir og fagrar listir séu mannbætandi, og þeirrar ættar eru verk hans öll, kvæði, ritgerðir, útgáfur bóka og margt annað. Allt þetta verður öruggur minnisvarði höfundar og eftirkomendum leiðarljós.

Tónskáldaþættirnir í fyrsta hluta „Haugaelda" eru með miklum ágætum. Þar er meðal annars að finna þá langbeztu ritgerð, sem samin hefir verið um Sveinbjörn Sveinbjörnsson, og ekki þykir mér sennilegt, að nokkur verði til þess að bæta þar um, því að þeir Gísli og Sveinbjörn voru nánir vinir um langt skeið. Fróðlegur þykir mér kaflinn um vestur-íslenzku tónskáldin, og í tónlistinni hafa Vestur-Íslendingar líklega skákað löndum sínum eystra, enda tækifærin til mennta í tónlist ólíkt fleiri og betri í henni Ameríku heldur en heima á Fróni.

Bókmenntaritgerðir annars þáttar eru merkilegar, ekki sízt fjörtíu ára gömul grein um Jónas Hall-



grímsson, sem á heima í úrvali greina um skáldið. Það er ekki eingungis, að Gísli gjörþekki verk Jónasar, heldur umgengst hann viðfangsefni sitt af kunnáttusemi hins lærða bókmenntafræðings með slíkum ágætum, að ekki verður á betra kosið.

„Fokdreifar úr Íslandsferð" er um heimsókn höfundar til æskustöðva eftir hálfrar aldar útivist. Þar kennir margra grasa og öll er frásögn höfundar yljuð ættjarðarást, sem fimmtíu ár hafa ekki megnað að slæva.

Lengsta ritgerð bókarinnar, „Heiðarbúinn" og ættmenn hans er sannorð og vönduð lýsing á æskuheimili höfundar og örlögum ættar hans. Grein þessi er einstök í sinni röð. Höfundur samdi hana, þegar hann var hálfníræður, og því má líta á hana, eins og raunar bókina í heild sinni, sem eitt merkilegt „document" um andlegt langlífi. **H.B.**

# Helztu viðburðir

**meðal Íslendinga vestan hafs 1963**

**RICHARD BECK tók saman**

18. jan. — Í fjölmennri kveldveizlu, sem The Icelandic Canadian Club hafði efnt til, afhenti Stephen Juba, borgarstjóri í Winnipeg, fyrir hönd bæjarstjórnar, þeim Walter J. Lindal dómara og dr. P. H. T. Thorlakson heiðursskírteini („Community Service Awards") í viðurkenningarskyni fyrir störf þeirra í þágu borgarinnar og annarra opinberra málefna.

Jan. — Seinustu vikuna í þeim mánuði flutti Kanadíska ríkisútvarpið og sjónvarpið af segulbandi viðtöl við dr. Vilhjálm Stefánsson landkönnuð um rannsóknarferðir hans á Norðurslóðum, sem hann hafði átt við tvo sérfræðinga í Norðurheimskautsrannsóknum stuttu áður en hann lézt í ágúst 1962.

31. jan. — Kom út vönduð hátíðarútgáfa af **Lögbergi-Heimskringlu** í tilefni þess, að þ. 14. janúar voru 75 ár liðin frá því að **Lögberg** var stofnað. Síðan vestur-íslenzku vikublöðin sameinuðust, hefir frú Ingibjörg Jónsson haft ritstjórnina með höndum, en áður hafði maður hennar, Einar P. Jónsson skáld, verið ritstjóri **Lögbergs** áratugum saman.

9. febr. — Átti Eggert Grettir Eggertson verkfræðingur sextugsafmæli. Hann hefir tekið mikinn þátt í starfi ýmissa vestur-íslenzkra stofnana. um mörg ár átt sæti í stjórn Eimskipafélags Íslands, og komið við sögu rafmagnsmála á Íslandi.

18—20. febr. — Fertugasta og fjórða ársþing Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi haldið í Winnipeg við prýðisgóða aðsókn á fundum og samkomum. Séra Philip M. Pétursson var kjörinn forseti í stað dr. Richards Beck, er baðst undan endurkosningu eftir að hafa skipað forsetasessinn undanfarin sex ár. Stuttu síðar endurkaus stjórnarnefndin þá Gísla skáld Jónsson og Harald Bessason prófessor ritstjóra **Tímarits** félagsins. Heiðursfélagar Þjóðræknisfélagsins voru kjörnir þeir Dr. Hugh H. Saunderson, forseti fylkisháskólans í Manitoba, Sigurður Sigurgeirsson bankaritari, um langt skeið formaður Þjóðræknisfélagsins í Reykjavík, og Ólafur Hallsson sem átt hefir sæti í stjórnarnefnd Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi árum saman. Sérstakur gestur þingsins og aðalræðumaður var Sigurður Magnússon, upplýsingastjóri Loftleiða í Reykjavík.

Marz — Í síðustu viku þess mánaðar flutti dr. Sigurður Þórarinsson, kennari í jarðfræði við Háskóla Íslands og víðkunnur vísindamaður og rithöfundur í sinni fræðigrein, fyrirlestra á vegum jarðfræðideildar Manitobaháskóla, ennfremur erindi á samkomum þjóðræknisdeildanna „Fróns" í Winnipeg og „Esjunnar" í Arborg, Man.

8. apríl — Við almennar kosningar í Kanada voru tveir Íslendingar endurkosnir fulltrúar á sambandsþingið, þeir William Benedickson, þingmaður Kenora-Rainy River kjördæmisins í Ontario, í sjöunda sinn, og Eric Stefánson, þingmaður Selkirk kjördæmis, í þriðja sinn, báðir með drjúgum auknu afli atkvæða.

22. apríl — Efndi Icelandic Canadian Club til alþjóða lista- og hannyrðasýningar í samkomusal Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg, er fjölsótt var. Frú Geraldine Thorlakson stóð fyrir sýningunni.

27. apríl — Leo Johnson, Winnipeg, kosinn forseti „The Manitoba Curling Association", en hann er einn af fremstu afreksmönnum Kanada í þeirri íþróttagrein og hefir unnið fjölda verðlauna í samkeppni á því sviði.

Maí — Við vorprófin á Manitobaháskóla (Univ. of Manitoba) brautskráðist eftirfarandi námsfólk af íslenzkum ættum:

**Master of Arts:**

Kathryn Gail Oleson, B.A. 1961, B.A. Hon. 1962, Winnipeg.

**Bachelor of Arts:**

Daniel Murray Bjarnason, Brandon.
Herbert Garth Bjarnason, Gimli.
Kenneth Roy Davidson, Selkirk.
Elin Margaret Josephson, Glenboro.
Ruth Jensine Martinussen, Swan River.

Jón Timothy Samson, Winnipeg.
Marvin Halldór Sveistrup (í okt. 1962), Vogar.
Jo-Ann Helga Emily Stefánson, Lundar.

**Bachelor of Science:**

Helgi Herbert Albertson, Pine Falls.
David Hjálmar Bergman, Brandon.
Thorkell James Brandson, Winnipeg.
Janice Carolyne Ingimundson, Winnipeg.
Stefán Vern Júlíus Sólmundson, Charleswood, Man.

**Bachelor of Social Work:**

Frank Caldwell Johnson, Winnipeg.

**Bachelor of Fine Arts:**

Hjörtur Dale Ólafur Amundson, St. James, Man.

**Doctor of Medicine:**

Herman Magnús Johnson, B.Sc., Oak View, Man.

**Bachelor of Science in Engineering:**

Robert Solvin Sólmundson, Hecla, Man.

**Bachelor of Agriculture:**

Marvin Robert Borgfjord, Árborg.

**Bachelor of Education:**

John Herbert Arnason, B.Sc., St. James, Man.
Wilfred Leonard Arnason, B.S.A., Gimli.
Albert Frank Sigurdson, B.A., Selkirk.
Brian Douglas Thorkelson, B.Sc., Virden, Man.

**Diploma in Agriculture:**

Ólafur Bjarni Keith Halldórson, Hayland, Man.
Halldór John Johnson, Vogar, Man.

**Certificate in Education:**

Helgi Herbert Albertson, B.Sc., Pine Falls.
David Ellis Árnason, B.A., Gimli.
Carol Lynne Asgeirson, Winnipeg.
Dorothy Salome Backman, B.Sc. (okt. 1962), Lundar.
Rosemary Johnson, B.A., Winnipeg.
Lincoln Jorgen Péturson, B.Sc., St. James, Man.
William Dempsey Valgardson, B.A., Gimli.

**Bachelor of Science in Home Economics:**

Sheila Dawn Stinson (íslenzk í móðurætt), Elmwood, Man.

Maí — Um þær mundir skipaði Lester B. Pearson, forsætisráðherra Kanada, William Benedickson samabandsþingmann sem námumálaráðherra í ráðuneyti sínu.

3. maí — Árni G. Eggertson, Q.C., lögfræðingur í Winnipeg, endurkosinn í stjórnarnefnd Eimskipafélags Íslands á ársfundi félagsins í Reykjavík.

Maí — Blaðafrétt greinir frá því, að T. David Einarson hafi nýlega verið kjörinn félagi í allsherjarfélagsskap jarðeðlisfræðinga, „The Society of Exploration Geophysicists", en hann gegnir meiriháttar starfi í þeirri grein í Tripoli, Lybya. Hann er sonur þeirra Guðmundar O. (nú látinn) og Elínar Einarsson í Arborg, Man.

Maí — Tilkynnt, að National Research Council of Canada hafi veitt Oscar Thor Sigvaldason frá Arborg, Man., $2,400 námsstyrk til framhaldsnáms í verkfræði við Imperial College í London. (Um fyrri námsframa hans og foreldra, sjá „Helztu viðburði" hér í ritinu fyrir 1961).

14.—15. maí — Eftirfarandi stúdentar af íslenzkum ættum útskrifuðust af fylkis-háskólanum í Saskatchewan (Univ. of Saskatchewan):

**Bachelor of Arts:**

Stefanie Thordís Árnason (með háum heiðri), Sakatoon.
Richard Douglas Bell, Saskatoon.
Heather Gail Peterson (menntastig með heiðri í eðlisfræði), Saskatoon.

**Bachelor of Civil Engineering:**

Gerald William Runólfsson, Semans, Sask.

**Master of Arts:**

Morine Barbara Baldwinson, Regina.

24.—26. maí — Þrítugasta og níunda ársþing Bandalags íslenzkra lúterskra kvenna (The Lutheran Women's League of Manitoba, Icelandic) haldið í Argylebyggð, Manitoba. Miss Mattie Halldórson, Winnipeg, var kosin forseti.

2. júní — Luku eftirfarandi stúdentar af íslenzkum ættum námi á ríkisháskólanum í N.Dakota (Univ. of North Dakota):

**Bachelor of Science Medical Technology:**

Mary Beth Dínusson, Akra, N.Dak.

**Bachelor of Science in Education and Bachelor's Diploma in Teaching:**

Arthur Eldon Hillman, Akra, N.Dak.
Phyllis Kaye Magnússon, Hensel, N.Dak.

**Bachelor of Science in General Industrial Engineering:**

Burke Magnús Halldórson, Grand Forks, N.Dak.

**Bachelor of Science in Business Administration:**

Alfred Jerome Hall, Edinburgh, N.Dak.
John Gudmund Thorgrimsen (íslenzkur í föðurætt), Grand Forks, N.Dak.

**Bachelor of Science in Nursing:**

Sandra G. Halldórson, Grand Forks, N.Dak.

**Bachelor of Laws:**

Romaine Dolye Thorfinnson, Wahpeton, N.Dak.

Júní — Í lok skólaársins í byrjun þess mánaðar lét dr. Richard Beck prófessor af embætti sem forseti Hinnar erlendu tungumáladeildar ríkisháskólans í N.Dakota eftir 10 ár í því embætti, en heldur áfram óbreyttri háskólakennslu sinni í Norðurlandamálum og bókmenntum.

Júní — Kunnugt gert, að „The Social Research Council of Canada“ hafi veitt John Stephan Matthíasson fjárstyrk að upphæð $7,000 til rannsókna meðal Eskimóa að Pond Inlet á Baffin Island. Hann stundar nú framhaldsnám í mannfræði á Cornell University, og á sér að baki merkan námsferil. Hann er sonur Mrs. W. Kristjánsson í Winnipeg og fyrri manns hennar dr. M. J. Matthíasson, sem látinn er fyrir mörgum árum.

6. júní — Rúmlega 40 manna hópur flaug á vegum „The Icelandic Canadian Club“, frá Winnipeg um New York til Íslands, undir fararstjórn Walters J. Lindal dómara, og dvaldi þar um mánaðartíma.

Júní — Snemma í þeim mánuði flaug stór hópur Vestur-Íslendinga til Íslands til að taka að sér atvinnu þar, og hafði séra Robert Jack haft með höndum ráðningu þessa fólks fyrir hönd atvinnuveitenda. Var hér um nýmæli að ræða í samskiptum Íslendinga yfir hafið.

11. júní — Hélt Guttormur J. Guttormsson, skáld að Víðivöllum í Nýja Íslandi, til Íslands í boði flugfélagsins „Loftleiðir“, Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi og nokkurra velunnara vestan hafsins, og dvaldi heima á ættjörðinni fram eftir sumrinu. Þótti hann mikill aufúsugestur og var margvíslegur sómi sýndur.

13. júní — Flaug 110 manna hópur frá Vancouver til Reykjavíkur, á vegum þjóðræknisdeildarinnar „Ströndin“, og voru fararstjórar þeir Snorri Gunnarsson, forseti deildarinnar, og Sigurbjörn Sigurdson söngstjóri. Var hér um sögulega ferð að ræða, þar sem flogið var yfir norðurhvel jarðar beint til Reykjavíkur.

17. júní — Walter J. Lindal dómari flytur kveðjur frá Vestur-Íslendingum á lýðveldishátíðinni í Reykjavík. Um þær mundir flutti hann og opinberan fyrirlestur við Háskóla Íslands. Þann dag eða um þær mundir var lýðveldisdagur Íslands haldinn hátðlegur með samkomum á mörgum stöðum meðal Íslendinga vestan hafs. Á sjálfan lýðveldisdaginn hélt þjóðræknisdeildin „Báran“ að Mountain samtímis hátíðlegt 25 ára afmæli deildarinnar með fjölþættri skemmtiskrá. Aðalræðumaður var dr. Richard Beck, fyrrv. forseti Þjóðræknisfélagsins og ræðismaður Íslands í N. Dakota, en Guðmundur J. Jónasson, um langt skeið forseti deildarinnar, hafði samkomustjórn með höndum.

23. júní — Lét séra Sveinbjörn S. Ólafsson, í Little Falls, Minnesota, af embætti eftir 32 ára prestsþjónustu hjá Methodistakirkju Bandaríkjanna á ýmsum stöðum í Minnesota. Hefir hann verið vinsæll og velmetinn í prestsstarfinu.

Júní—júlí — Um þau mánaðamót lögðu þau dr. Valdimar J. Eylands og frú Lilja Eylands af stað til Íslands í boði Þjóðkirkjunnar íslenzku, til þess að vera viðstödd vígslu Skálholtskirkju þ. 21. júlí. Tók dr. Valdimar þátt í þeirri sögulegu athöfn, en að kirkjuvígslunni afstaðinni ferðuðust þau hjónin til Rómaborgar og víðar á þeim slóðum.

2. júlí — Varð Kári Vilhelm Jóhannson, forstjóri í Winnipeg, sextugur. Hefir hann tekið mikinn og góðan þátt í vestur-íslenzkum kirkjumálum og öðrum félagsmálum.

4. júlí — Sæmdi forseti Íslands, herra Ásgeir Ásgeirsson, dr. Watson Kirkconnell, forseta Acadia University, in Wolfville, Nova Scotia, stórriddarakrossi Fálkaorðunnar, og John F. Sigurdson, ræðismann Íslands í Vancouver, B.C., riddarakrossi orðunnar. Um sömu

mundir sæmdi forseti einnig þá Walter J. Lindal dómara og E. Gretti Eggertson verkfræðing í Winnipeg stórriddarakrossi Fálkaorðunnar.

10. júlí — Tilkynnt, að sambandsstjórn Kanada hafi skipað Benjamín G. Sivertz landstjóra („Commissioner") fyrir Norðursvæði landsins („Northwest Territories"), en hann hefir áður lengi verið framkvæmdastjóri þeirrar stjórnardeildar, er um þau mál fjalla. Hann er fæddur og alinn upp í Victoria, B.C., sonur þeirra Kristjáns Sivertz og konu hans, er þar bjuggu um langt skeið, nú bæði látin.

11. júlí — Átti Freeman M. Einarson, bóndi og fyrrv. ríkisþingmaður að Mountain, N.Dak., 75 ára afmæli. Hann hefir komið með mörgum hætti og farsællega við sögu byggðar sinnar og átti samfleytt 16 ár sæti á ríkisþinginu í Norður-Dakota.

21. júlí — Biskupinn yfir Íslandi, herra Sigurbjörn Einarsson, tilkynnir, að borizt hafi fyrsta gjöfin — að upphæð 20 þúsund krónur — til lýðháskólans, sem kirkjan ætlar að reisa í Skálholti, frá þeim hjónunum Guðrúnu Grímsdóttur og Ágústi Eyjólfssyni í Winnipeg. Guðrún er fædd og uppalin í Skálholti, dóttir Gríms Eiríkssonar og Guðrúnar Eyjólfsdóttur, er þar bjuggu.

28. júlí — Haldinn árlegur Íslendingadagur við Friðarbogann í Blaine, Wash.

5. ágúst — Sjötugasti og fjórði Íslendingadagur haldinn að Gimli, Man.

9.. ágúst — Mervin Johnson, fyrrum sambandsþingmaður Kindersley kjördæmisins í Saskatchewan, kosinn forseti New Democratic þingflokksins á þingi hans í Regina, Sask.

10. ágúst — Brautskráðist George Myron Benjamínson, Edinburg, N.Dak., af ríkisháskólanum í N.Dakota, og hlaut menntastigið „Bachelor of Science in Education and Bachelor's Diploma in Teaching".

20. ágúst — Lauk George Hanson, sem búsettur er í Chicago, Ill., meistaraprófi í bókavörzlufræðum („Master of Arts in Library Science") á Chicagoháskóla (Univ. of Chicago). Fjallaði meistararitgerð hans um sögu Landsbókasafns Íslands („The History of The National Library of Iceland During the Twentieth Century"). Hafði hann viðað að sér efni í hana árið 1961—1962, er hann var kennari á Keflavíkurflugvelli.

18. sept. — Hélt hinn víðfrægi íslenzki píanóleikari Rögnvaldur Sigurjónsson opinbera hljómleika í Winnipeg á vegum Þjóðræknisfélagsins við góða aðsókn og frábærar undirtektir áheyrenda. Sambærilegum viðtökum átti hann að fagna síðar á hljómleikum sínum í Vancouver, B.C., Seattle, Wash., og Washington, D.C.

24. sept. — Paul Sveinbjörn Johnson lögfræðingur, vararæðismaður Íslands í Chicago, sæmdur riddarakrossi Fálkaorðunnar. Dr. Árni Helgason, ræðismaður Íslands í Chicago, afhenti heiðursmerkið fyrir hönd forseta Íslands. Hinn nýi orðuhafi er sonur dr. Sveinbjörns heit. Johnson, fyrrum dómsmálaráðherra og hæstaréttardómara í N.Dakota, er einnig var síðar lögfræðilegur ráðunautur ríkisháskólans í Illinois (Univ. of Illinois.

30. sept. — Þrítugasta og sjöunda ársþing Kvennasambands Unitara haldið í Winnipeg.

Sept. — Blaðafregn skýrir frá því að ákveðið hafi verið að nefna byggingu þá á fylkisháskólanum í Saskatchewan (Univ. of Sasktchewan), þar sem öll kennsla í efnafræði fer fram, „The Thorvaldson Building", til heiðurs dr. Thorbergi Thorvaldson og í viðurkenningar skyni fyrir mikilvæg störf hans sem háskólakennara í efnafræði og víðtækar rannsóknir hans í þeirri fræðigrein, en fyrir þær hefir honum verið margvíslegur sómi sýndur.

Sept. — Um þær mundir lauk Gerald Björnson, frá Old Kildonan, Man., prófi á The Institute of Chartered Accountants sem löggiltur endurskoðandi (C.A.).

15. okt. — Í tilefni af 85 ára afmæli landnáms Íslendinga í Norður-Dakota á undanförnu sumri flutti Ríkisútvarpið íslenzka erindi um sögu landnámsins, sem dr. Richard Beck hafði talað á segulband fyrir það tækifæri.

17. okt. — Fyrsti lúterski söfnuður í Winnipeg heiðraði þau dr. Valdimar J. Eylands og frú Lilju með fjölmennri og virðulegri kvöldsamkomu í kirkjunni í tilefni þess, að hann hefir á þessu ári þjónað söfnuðinum í aldarfjórðung.

24. okt. — Átti frú Jakobína Johnson, hin góðkunna skáldkona í Seattle, Wash., áttatíu ára afmæli, og var þess minnzt með mörgum hætti. Meðal annars var hún heiðruð í afmælisveizlum í Seattle og Vancouver, B.C.

25. okt. — Lauk Thomas Eric Stefánson, frá Gimli, Man., prófi sem löggiltur endurskoðandi (C.A.) á United College í Winnipeg.

Okt. — Dr. Arnold W. Holm, Winnipeg, kjörinn félagi („Afiliate Fellow") læknafélagsins „The American Academy of Pediatrics", og hlaut þannig viðurkenningu þess sem sérfræðingur í barnalækningum. Hann er sonur þeirra hjóna Sigurðar og Sigríðar Holm að Lundar, Man.

Nóv. — Í fyrstu viku þess mánaðar flutti dr. phil. Halldór Halldórsson, prófessor í íslenzkri málfræði við Háskóla Íslands, fyrirlestra á háskólunum í Norður-Dakota og Manitoba, en hafði áður um tveggja mánaða skeið verið á ferðalagi um Bandaríkin í boði Utanríkisráðuneytis þeirra, og flutt fyrirlestra á fjöldamörgum háskólum þar í landi. Í för með honum var kona hans, frú Sigríður Guðmundsdóttir.

Nóv. — Í þeim mánuði var Skafti J. Borgford, verkfræðingur og húsabyggingameistari í Winnipeg, kosinn forseti samvinnu-húsabyggingarfélagsins „Cooperative Housing Association of Manitoba". Hann á einnig sæti í framkvæmdanefnd hins fjölmenna félagsskapar „Cooperative Credit Society of Manitoba" og í stjórn fleiri félaga. Hann er sonur þeirra hjóna Thorsteins byggingarmeistara og Guðrúnar Borgford, nú bæði látin.

16. nóv. — Tuttugu ára afmælis þjóðræknisdeildarinnar „Gimli" að Gimli, Man., minnzt með fjölþættri og fjölmennri samkomu, þar sem saman fóru margháttaður söngur, hljómlist og ræðuhöld. Frank Olson, skólastjóri að Gimli og forseti deildarinnar, stýrði samkomunni, en aðalræðuna flutti dr. Kjartan I . Johnson, frá Pine Falls, Man., fyrsti forseti deildarinnar. Kveðjur og ávörp fluttu Grettir L. Johannson ræðismaður, frú Ingibjörg Jónsson ritstjóri, er verið hafði í hópi þeirra, er áttu hlut að stofnun deildarinnar, séra Philip M. Pétursson, forseti Þjóðræknisfélagsins, og Gunnar Sæmundsson, forseti deildarinnar „Esjan" í Árborg.

21. nóv. — Varð Guttormur J. Guttormsson, skáldabóndi að Víðivöllum við Íslendingafljót í Nýja Íslandi, hálf-níræður, og var þeirra merku tímamóta í ævi hans og rithöfundarferil minnzt fagurlega að verðleikum austan hafs og vestan.

26. nóv. — Átti Thor Thors, ambassador Íslands í Bandaríkjunum og Kanada, sextugsafmæli. Auk víðtækra og mikilvægra starfa sinna í þágu Íslands á erlendum vettvangi, hefir hann komið mikið og farsællega við félagsmál Íslendinga í Vesturheimi. Var hann einnig með mörgum hætti minnzt með þökk og virðingu á afmælinu. Meðal annars afhenti Grettir L. Johannson ræðismaður ambassadornum skrautritað ávarp undirritað af öllum ræðismönnum Íslands í umdæmi hans í Norður- og Suður-Ameríku og af forsetum íslenzkra félaga í Vesturheimi.

28. nóv. — Átti Grettir L. Johannson, ræðismaður Íslands í Vesturfylkjum Kanada, 25 ára starfsafmæli, og er hann aldursforseti íslenzkra ræðismanna. Hefir hann, samhliða ræðismannsstarfinu, tekið margháttaðan þátt í vestur-íslenzkum félagsmálum.

Des. — Dufferin Roblin, forsætisráðherra Manitoba, skipaði dr. George Johnson menntamálaráðherra í ráðuneyti sínu, en hann hafði síðan 1958 verið heilbrigðismálaráðherra, og framan af ráðherratíð sinni einnig haft velferðarmálin með höndum.

---

GUTTORMUR J. GUTTORMSSON:

# Know Thyself

**Translated by Vilhjálmur Bjarnar**

Guttormur J. Guttormsson (1878- ) is one of a small number of Canadian-Icelandic writers in the language of their fathers who were born on this side of the Atlantic, his birthplace being Riverton, Manitoba. Largely a self-educated man, he has successfully combined writing with farming as did the giant among Canadian - Icelandic writers and poets, Stephan G. Stephansson (1853-1927). Like Stephansson, too, Guttormsson is primarily a poet, with six volumes of poetry to his credit: *Jón Austfirðingur* (Jonh of the Eastfjords, 1909), *Bóndadóttir* (Farmer's Daughter, 1910), *Gaman og alvara* (Jest and Earnest, 1930), *Hunangsflugur* (Honeybees, 1944)— these were later published in a one-volume edition entitled *Kvæðasafn* (Collection of Poems, 1947) — and *Kanadaþistill*, (Canadian Thistle 1958).

In contrast to Stephansson, who has left us no dramatic works, Guttormsson has written a number of short plays, ten of which appeared in 1930 in a volume entitled *Tíu leikrit* (Ten Plays). Since then, he has published two more plays — "Byltingin" (The Revolution) and "Líkblæjan" (The Shroud)—in the periodical *Óðinn* (1935-36), where the others plays previous had also found space.

Rejecting a naturalistic approach to dramatic creation, Guttormsson sees the play as the proper medium for symbolic expression of the reality which he perceives under the illusory surface of earthly things. His plays as a rule wrestle with social or philosophical problems and contain some message, which in case of the first-mentioned tends to take the form of social satire.

Among the social satire plays the following may be noted: "Hinir höltu" (The Lame Ones), "Spegillinn" (The Mirror), "The Revolution," and Ódauðleiki" (Immortality).

The philosophical plays — such as "Skugginn" (The Shadow), "Upprisan" (The Resurrection), "Hringurinn" (The Circle), and "The Shroud" — deal with the themes of life and death, of love and hate, of man faced with his destiny, of youth versus age. The motif of unity with dual aspect recurs in these plays and receives even greater emphasis in "Þekktu sjálfan þig," the play here presented in English translation.

The dual unity of life-death, dream-reality, and happiness-unhappiness is the main theme of the play, with particular stress on man's pursuit of happiness. Man's personality is considered dual also, and the thesis of the play is that the secret of happiness lies in knowing one-

self; that is, in the realization of one's dual nature as part earth, part heaven. In that self-realization, the play also seems to say, is to be found harmony between spirit and body.

To express the duality of existence, the author uses structural symbolism. Thus the first act takes place in a vegetable garden, which represents the limitations and hopelessness of merely physical life. In contrast, the second act it set in an orchard, where are found potentialities for unlimited development and the freedom of the spirit: when there, the searcher for happiness, Worm, who in the vegetable garden is a lame, one-eyed slave, is sound and free. The final scene of the third act, which takes place in the summer home of Worm's master, Ant, in the woods off the vegetable garden, reveals, however, that the two "gardens" are in reality one and the same. For, as Firefly's light flashes on and off outside, the spectator sees, through the open door of the summer home, first the vegetable garden; the next instant, the orchard; and finally, Worm standing outside the door looking at his own lifeless body within. Thus, although the play holds out a hope for the possibility of self-realization while in the body, only in the moment of death does Worm fully understand his dual nature and become united with his soul's true love, Firefly.[1]

1. For additional information about Guttormsson's life and works the reader is referred to Stefán Einarsson, **History of Icelandic Prose Writers, 1800-1940 (Islandica, XXXII—XXXIII;** Ithaca, N.Y.: Cornell University Press, 1948), pp. 244-245, on which the remarks above in part are based. — Translator.

CHARACTERS:

WORM
BUTTERFLY
FIREFLY
ANT

## ACT I

A vegetable garden; plants in many rows A tall pine forest on each side. Upstage left a waterfall, its roar audible, descends between cliffs. In the pine forest to the right of the waterfall is seen the gable of a low but stately summer home of logs; on the gable a door, a large window to the right of it Evening; darkness is falling.

*Worm,* in grey overalls, is hoeing plants. *Firefly,* wearing a yellow silk dress, is sitting on a stone to the left.

*Firefly*: To know what is happiness, one would have to be able to anticipate all changes in oneself, for one's happiness is one's condition at a given moment. What is happiness today may be unhappiness tomorrow. To anticipate how any given incident would change one's condition, one would have to know oneself. Therefore happiness would seem most likely to be found where there is need for the greatest possible number of one's qualities or talents.

*Worm* (puts down the hoe): The first prerequisite for seeking happiness is freedom. I don't know whether I possess few talents or many. I am certain, however, that those who make themselves conspicuous and hoe vegetables are in bondage.

*Firefly*: A new environment and new undertaking call forth previously unknown talents.

*Worm*: Yes—that is why I have made up my mind to run away tonight. I am waiting for the dark. The way toward the light leads through darkness. I long for the freedom on the other side of the border.

*Firefly* (jumps to her feet): But, Worm, the waterfall is on the border, and the bridge over the waterfall is narrow—the blacker the darkness, the narrower the bridge. Remember that you are lame and one-eyed.

*Worm*: I know I can't flee all by myself.

*Firefly* (calmer, in a low and tender voice): I wouldn't stray off the bridge if you were with me. I should have to be careful so I could protect you.

*Worm*: But I can't let you guide me, Firefly.

*Firefly* (starts; silent for a moment): You are rejecting that which you want; you want me to guide you, but you don't know it.

*Worm*: Your words are large in the fog.

*Firefly*: In his innermost being, everybody desires whatever he needs for his happiness. You need me to guide you. I am not meant to guide those who don't need my guidance. I know that I was given light for no other purpose than to illumine the way for those who need light.

*Worm*: I am waiting for my sweetheart.

Silence.

*Firefly*: You are waiting against your will. You are waiting for a companion whom you don't want.

*Worm*: It is Butterfly who is going with me.

*Firefly* (silent for a moment): Suppose she were to lead you off the bridge.

*Worm*: I would rather die with her than live without her.

*Firefly*: Your love for her will last only as long as she is young and beautiful outwardly. It is the kind of love which Providence employs to unite two different human beings for the sake of propagating the species; their own wills are disregarded. Your soul doesn't love Butterfly. The soul's love is the only love which lasts beyond death and the grave.

*Worm*: I admit that I would rather be in love with you; yet it is Butterfly I love, not you.

*Firefly* (joyously): Now you know what you want.

*Worm*: It is possible that, because of your influence, this is not my true will.

*Firefly*: It is your true will, for the will is selfish. The will is always, always selfish. Even those who make the greatest sacrifices for others do so for their own sake, for they want to feel good, knowing that self-sacrifice and good deeds create a sense of bliss and peace of mind. Those who value their souls, willingly undergo physical suffering to secure happiness for their souls.

*Worm*: Since I am so divided against

myself that my human nature keeps me from doing what I want, isn't there reason to believe that I shall be able to live a truly integrated life—the life of the spirit alone—only after the soul has departed the body?

*Firefly*: It is much more urgent for you to ascertain whether you can't live in spiritual and physical harmony. I know you desire to change so that you can be happy, but the will is weaker than weakness itself. The only lasting change is the one which is not subject to your will, because such a change is consistent with yourself.

*Worm*: But involuntary changes are engendered by influences from without.

*Firefly*: Yes, imagine that Butterfly refused to go with you, left you, and took up with Ant, your master and enemy.

*Worm*: I can't imagine anything so preposterous.

*Firefly*: What would you do in the event it happened?

*Worm*: I should turn my back on her, despise her, thrust her out of my mind, and kneel before you.

*Firefly*: You don't know how you would react. Perhaps you would do what you least expected, something you thought you couldn't do or didn't have in you. Circumstances produce from the secret place which man is, various unexpected and unknown reactions, just as new undertakings call forth previously unkown talents.

*Worm*: Hush! Hush! There come Ant and Butterfly. (Points to the right.) And good God help me—they are walking hand in hand.

*Firefly*: The type of love you have for her she can of course find in others. Why should she make any sacrifices for the sake of your love? In many ways, Ant surpasses you: he has a strong and sound body; besides, he is your master. Butterfly is swayed by such considerations.

*Worm*: She is obviously not going to keep her promise to accompany me.

*Firefly*: Don't kneel now, but come quickly; I will go with you. (Goes out to the left.)

*Worm*: Yes. (Follows her hesitatingly.) No— (Stpos; looks back; takes the hoe and begins hoeing.)

*Ant* and *Butterfly* enter from the right; he is wearing dark-brown, tight-fitting clothes; she, a grey dress with dark-red trimming.

*Ant*: It could be said that I own every bone in Worm's body; I have kept him alive and have had him with me since he was young.

*Butterfly*: You have kept him in bondage and used force against him.

*Ant*: It goes by an entirely different name.

*Butterfly*: A pretty name that has an ugly meaning.

*Ant*: The civilization of the ants wouldn't be considered the greatest in the world if we hadn't made others subject to us and if we hadn't known how to use power and the law of the fist.

*Butterfly*: Power over the lowly is never lofty.

*Ant*: All power is power over slaves.

After arriving in Charlottenborg, Thorvaldsen was feted and hailed in every conceivable manner. There were grand receptions, addresses of tribute and hundreds of messages from far and wide. One of these, coming from the United States of America, was a message from Thomas H. Webb, secretary of the Rhode Island Historical Society, informing him that he had been elected Honorary Fellow of the Society on account of being the only living descendant of the first European born in North America! The letter said that through the researches of The Royal Norse Archaeological Society, contained in the book, "American Antiquities", now reposing in the library of Harvard University, there was found a genealogical table tracing the ancestry of Thorvaldsen to one Thorfinnur Karlsefni who had dwelt one winter at Mount Hope, Rhode Island, in the year 1006-7, with his wife Guðíður, and his whole household. There Guðríður bore a son named Snorri, and from him, in direct line, is descended the sculptor, Bertel Thorvaldsen, and as such is a sort of deputy or representative of Snorri, the first white child born on American soil.

Thorvaldsen was delighted with this lettter, in spite of its small inaccuracies, and said this was the first time he had been honored because of his ancestry! In fact he is descended, eighth in line, from the notable man of rank, letters and art, Guðbrandur, Bispuk of Hólar Bishopric in Iceland.

Thorvaldsen had dwelt in Rome for forty-two years, and had come to the evening of his days, and a placid and beautiful evening it was! He made his home for the last five years of his life on the delightful estate of Count Stampe and his wife at Nysö. His health was good, his mental faculties unimpaired, and he still worked at his beloved sculpture. He made a short trip to Rome in 1841, to arrange for the sending to Copenhagen the last of his collection. He had watched the building of the Thorvaldsen Museum, which was now almost completed on the outside. "Now I am ready to go to another Eternal City, for Bindesböll has prepared the resting place for my earthly body", he said shortly before his death.

That evening he attended a performance at the Royal Opera House, in good spirits and contented with his lot. He greeted numerous friends as he was on his way to his box seat, and sat down ready to enjoy the performance. As the orchestra played the overture and before the curtain went up, a friend saw him bend down as if to pick something off the floor; just as he was about to sink down on the floor, those near rushed to his aid, and carried him silently to the foyer. The heart had stopped beating; he had already passed away. This was on Sunday, March 24th, 1844. He would have been seventy-four years old had he lived until the fall, as he was born in 1770, reputedly on a Danish merchant vessel just out from Skagafjörður.

The funeral was impressive and solemn, and he was laid temporarily to rest in the burial vault of the

Church of Our Lady, from whence his earhtly remains were moved, September 6th, 1848, to the final resting place in the court of the now finished Thorvaldsen Museum.

Many and varied have been the monuments raised to honor the dead —the great and the not so great of this world—from the great pyramids of Egypt and down to the lowly unmarked graves of those whose memory lives only among the loved ones. But it is doubtful if ever a more fitting memorial was erected, than this one to honor the memory of Bertel Thorvaldsen. For all around him stand his own works of art, the stones to which he himself gave life.

The name of Bertel Thorvaldsen looms large not only in the annals of Denmark, but in the history of modern sculpture, for he recreated and re-vitalized the Greek-Roman style, and brought to it a robustness, and a simple manly directness that captivated his contemporaries, and won their respect. What he created was always a true art, with a real feeling of strength, beauty and simplciity, and as such it has lasting value. As he is revered in his mother country, Denmark, he must also be remembered with love and admiration by the descendants of his father's land,—Iceland,—for what he was and for what he gave to the world!

---

# Mannalát

### JANÚAR 1962

13. Bjarni Torfason, að Lundar, Man. Fæddur 29. ágúst 1880 á Seyðisfirði. Foreldrar: Skúli Torfason frá Sandbrekku í Hjaltastaðarþinghá í Norður-Múlasýslu og Jóhanna Martína Jakobsdóttir, fædd í Mandal í Noregi og af norskum ættum. Hafði dvalið langvistum vestan hafs.

### MARZ 1962

16. John Lawrence Thompson, í Poughkeepsie, New York, 31 árs gamall. Sonur Norman Thompson frá Pelican Rapids, Minn., og konu hans Láru dóttur Stefáns Johnson og Hólmfríðar Hjaltalín Johnson, sem lengi bjuggu að Upham, N.Dak. Mikill efnismaður, sem átti sér glæsilegan námsferil að baki.

### JÚNÍ 1962

29. Gísli Jónsson, útgerðarmaður og frumbyggi í Osland-byggðinni í British Columbia, á sjúkrahúsi í Prince Rupert, B.C. Fæddur í Rangárvallasýslu 8. okt. 1873. Foreldrar: Jón Ólafsson og Geirdís Ólafsdóttir. Fluttist vestur um haf til Selkirk, Man, 1902, en í Osland-byggð 1918.

### ÁGÚST 1962

2. Ingimundur Ingimundarson (Goodman), að Lundar, Man., 76 ára að aldri.

### SEPTEMBER 1962

18. Hóseas Björn Pétursson, í Wynyard, Sask. Fæddur í Argyle, Man., 2. des. 1903. Foreldrar: Jóhannes Pétursson og kona hans, er fluttu til Wynyard 1905. Áhugamaður um sveitarmál.

### OKTÓBER 1962

15. Þorgerður Þórðardóttir (Thordarson) saumakona, á elliheimilinu Betel að Gimli, Man., 93 ára gömul. Fædd að Signýjarstöðum í Hálsahreppi í Borgarfjarðarsýslu. Kom vestur um haf 1893 og átti lengstum heima í Winnipeg.

### NÓVEMBER 1962

25. Dagbjört (Bertha) Potter, ekkja John Sloan Potter lögfræðings, á sjúkrahúsi í Vancouver, B.C. Fædd að Lundar, Man., 14. okt. 1894. Foreldrar: Snæbjörn og Ingibjörg Johnson, er fluttust til Vesturheims 1888.

26. Guðrún Jónsdóttir Guðmundsson, ekkja Guðmundar landnámsbónda Guðmundssonar á heimili sínu í grennd við

Mountain, N.Dak. Fædd 19. maí 1880 að Laugum í S. Þingeyjarsýslu. Foreldrar: Jón Þórarinsson frá Halldórsstöðum í Laxárdal og Þuríður Sveinsdóttir frá Garði í Aðaldal. Fluttist tíu ára gömul vestur um haf með móður sinni til Long Pine, Nebraska, en fimm árum síðar til N.Dakota.

## DESEMBER 1962

6. Oliver (Ólafur) Johnson kaupmaður, í North Battleford, Sask. Fæddur á Íslandi 10. maí 1879. Foreldrar: Sigvaldi Jóhannesson og Ingibjörg Magnúsdóttir. Kom til Kanada 1884, ólst upp í Winnipeg, en flutti vestur til North Battleford nokkru eftir aldamótin. Forystumaður í félagsmálum bæjar síns.

31. Guðrún Johnson, ekkja Vigfúsar Jónssonar frá Fornhaga í Eyjafirði (d. 1933), að heimili sínu í Milton, N.Dak. Fædd 6. ágúst 1866 að Hömrum í Eyjafirði. Foreldrar: Þorleifur Björnsson að Fornhaga í Eyjafirði og Guðrún Árnadóttir frá Þúfnavöllum. Fluttist vestur um haf með manni sínum í Garðarbyggð í N.Dakota 1891.

## JANÚAR 1963

5. Kolskeggur Torsteinsson trésmiður, á heimili sínu í St. James, Man. Fæddur 1889 í Fljótum í Skagafirði. Foreldrar: Tómas Thorsteinsson frá Núpakoti í Rangárvallasýslu og Guðrún Jóelsdóttir frá Sauðanesi á Upsaströnd í Eyjafjarðarsýslu. Kom ungur vestur um haf.

6. Páll S. Pálsson skáld, á sjúkrahúsi að Gimli, Man. Fæddur 17. sept. í Reykjavík. Foreldrar: Skarphéðinn Ísleifsson á Norður-Reykjum í Hálsasveit í Borgarfirði og Sigurbjörg Helgadóttir. Kom vestur um haf til Winnipeg vorið 1900, og hafði lengstum átt heima þar í borg, en að Gimli síðan 1952. Kunnur beggja megin hafsins fyrir skáldskap sinn og önnur ritstörf og tók mikinn þátt í vestur-íslenzkum félagsmálum.

10. Thóra Pálsson Scully hjúkrunarkona, á Almenna spítalanum í Winnipeg. Fædd þar í borg 1. sept. 1902. Foreldrar: Hjörtur Pálsson frá Norður-Reykjum í Hálsasveit og Kristín Thorsteinsdóttir frá Húsafelli í sömu sveit. Stundaði hjúkrunarstörf á ýmsum stöðum í Bandaríkjunum og á Kyrrahafsströndinni, um skeið forstöðukona á elliheimilinu Stafholti í Blaine, Wash.

13. Þorleifur (Leifur Johnson), að heimili sínu í Milton, N.Dak. Fæddur að Garðar, N.Dak., 28. maí 1895. Foreldrar: Vigfús og Guðrún Johnson. (Um ætt hans sjá dánarminningu hennar 31. des. 1962 hér að framan).

13. Ingólfur Johnson, í Winnipeg, 73 ára gamall . Fluttist vestur um haf til Glenboro, Man., 1902, og átti þar heima þar til hann flutti til Winnipeg 1916.

16. Steinunn (Steina) Jónasína Sommerville, kona dr. Andrew Neville Grace sjúkrahúsinu í Winnipeg. Fædd á Gimli, Man. Foreldrar: Jónas Stefánsson frá Þverá í Blönduhlíð í Skagafirði og Steinunn Grímsdóttir frá Egg í Hegranesi, er voru í fyrsta landnemahópi Íslendinga í Nýja Íslandi. Kona vel máli farin og ritfær, um mörg ár fréttaritari fyrir stórblaðið „Winnipeg Free Press“.

17. Thóra Jónína (Flora) Stephenson, á sjúkrahúsi í Winnipeg, 73 ára að aldri.

23. Freeman Halldórson frá Hayland, Man., á sjúkrahúsinu í Siglunes, Man.

24. Mrs. Oddfríður Johnson, á elliheimilinu Betel að Gimli, Man., 86 ára gömul.

## FEBRÚAR 1963

1. Ljótunn Guðríður Thorsteinson kennslukona frá Gimli, Man., á Almenna spítalanum í Winnipeg, 65 ára að aldri. Fædd í Keewatin, Ont., en átti lengstum heima að Gimli. Foreldrar: Hjálmar Thorsteinsson og kona hans, búsett að Gimli.

4. Sigrún Lindal, ekkja Hannesar Lindals hveitikaupmanns, í Los Angeles, Calif. Fædd að Jaðri í Árnesbyggð í Nýja Íslandi 5. maí 1892. Foreldrar: Gunnlaugur Helgason, landnámsmaður þar, og Jóhanna Helga Sigurðardóttir, ættuð úr Borgarfirði. Átti um langt skeið heima í Winnipeg en mörg hin síðari ár í Santa Monica, Calif. Hafði mikinn áhuga á félagsmálum.

4. Lárus Benson, á sjúkrahúsinu að Gimli, Man., 81 árs gamall. Flutti af Íslandi til Kanada 1888, átti heima í Selkirk, Man., um þrjátíu ára skeið, en síðustu 15 árin á Gimli.

4. Benedikt Benson, í Kenora, Ont. Fæddur 14. júlí 1881. Foreldrar: Björn Benediktsson frá Víkingavatni og Sigríður kona hans ættuð af Tjörnesi í Þingeyjarsýslu. Fluttist ársgamall vestum um haf til Glenboro, Man., með foreldrum sínum, og hafði átt heima á ýmsum öðrum stöðum í Manitoba.

7. Sigurrós (Rósa) Stefánsson Josephson, Mozart, Sask. Fædd að Mountain, N.Dak., 3. nóv. 1882. Foreldrar: Jóhann Stefánsson frá Tungu á Svalbarðsströnd,

landnámsmaður í Mountainbyggð, og Ingibjörg Jóhannesdóttir frá Hofstaðaseli í Skagafirði. Systir dr. Vilhjálms Stefánssonar landkönnuðar.

8. Mrs. Erikka Johnson, ekkja Geirs Johnson, frá Arborg, Man., á sjúkrahæli í St. Boniface, Man., áttræð að aldri.

Thorarinn Sveinn ( T. S.) Gudmundson byggingameistari, í Grand Forks, N.Dak. Fæddur að Mountain, N.Dak., 24. febr. 1907. Foreldrar: Guðmundur og Guðrún Jónsdóttir Guðmundsson, er bjuggu skammt frá Mountain. (Sambr. dánarfr. hennar 26. nóv. 1962 hér að framan). Um allmörg undanfarin ár búsettur í Grand Forks.

13. Ólöf Johnson, kona Lárusar Þórarins Johnson, á heimili sínu að Lundar, Man. Fædd 12. jan. 1903. Foreldrar: Steinn og Helga Dalman, er bjuggu í grennd við Lundar.

16. Rannveig Kristín Guðmundsdóttir Sigbjörnsson skáldkona, í Foam Lake, Sask. Fædd 2. des. 1880 í Bolungarvík. Foreldrar: Guðmundur Guðmundsson bóndi á Gróunesi í Gufudalssveit og Steinunn Bergsdóttir frá Bolungarvík. Flutti vestur um haf til Winnipeg 1902, og hafði lengstum átt heima í Leslie, Sask. Gaf út smásagnasöfn bæði á íslenzku og ensku, og hafði ritað fjölda greina í vestur-íslenzku vikublöðin og víðar.

23. Hallur Johnson, fyrrum til heimilis í Arborg, á sjúkrahúsinu að Gimli, Man., 84 ára gamall.

26. Mrs. Gróa Björnson, í Winnipeg, 88 ára gömul. Hafði átt heima í Winnipeg síðastliðin 60 ár.

27. Mrs. Jónína Christie, að heimili sínu í Winnipeg, 84 ára að aldri. Ekkja J. Guðmundar Christie, er lengi rak hótel á Gimli og síðar kvikmyndahús í Winnipeg.

27. Sigurjón Björnsson, í Blaine, Wash. Fæddur 10. des. 1872 að Stóra-Bakka í Hróarstungu í Norður-Múlasýslu. Foreldrar: Björn Sigurðsson frá Straumi í sömu sveit og Guðrún Jónsdóttir frá Litla-Bakka. Fluttist vestur um haf 1903, og var framan af árum í Winnipeg og Argylebyggð í Manitoba, en síðan 1930 í Blaine. Mjög bókhneigður maður og félagslyndur.

27. Allan Jóhannesson smiður, á Almenna spítalanum í Winnipeg, 73 ára gamall. Fæddur í Glenboro, Man., en hafði átt heima í Winnipeg undanfarin 67 ár.

**MARZ 1963**

2. Helgi Thordarson, á elliheimilinu Betel að Gimli, Man., 87 ára að aldri. Kom vestur um haf til Kanada um aldamótin og var bóndi að Arnes, Man., þar til hann flutti til Gimli 1942.

6. Mrs. Sigríður Hurdal, ekkja Hjartar Hurdal, á sjúkrahúsi í Ashern, Man., 71 árs gömul.

7. Mrs. Sigríður J. Gunnlaugson, kona Gunnars Gunnlaugson, á heimili sínu í Winnipeg, 68 ára að aldri.

13. Thorsteinn O. Thorsteinson járnbrautarvélstjóri frá St. James, Man., á Almenna spítalanum í Winnipeg, 65 ára gamall. Fæddur að Willow Island, Man., en búsettur í Winnipeg síðastliðin 40 ár.

14. Bjarni M. Loftson, að Lundar, Man., níræður að aldri.

16. Kristján Jóhannes Björnson, á sjúkrahúsinu að Gimli, Man., 79 ára gamall. Fæddur í Riverton, Man., og búsettur þar ævilangt.

17. Stefán Jóhannesson (Johnson), á sjúkrahúsi í Winnipeg. Fæddur að Litla-Ósi í Húnavatnssýslu 4. nóv. 1869. Foreldrar: Jóhann Helgason og Ósk Þorkelsdóttir. Fluttist ungur vestur um haf, átti lengi heima í Glenboro, Man., en síðan 1920 í Winnipeg.

19. Mrs. Lois Jean Thompson, kona John Thompson, frá Blaine, Wash., á sjúkrahúsi í Bellingham, Wash. Fædd í Mozart, Sask., 13. nóv. 1932. Foreldrar: Gísli Guðjónson og kona hans. Fluttist með þeim til Blaine 1944.

22. Ingibjörg Eggertson, kona Sigurbjörns (Björns) Eggertson kaupmanns, að heimili sínu að Vogar, Man. Fædd 25. ágúst 1896 á Sleðbrjót í Norður-Múlasýslu. Foreldrar: Jón Jónsson alþingismaður á Sleðbrjót og Guðrún Jónsdóttir. Kom vestur um haf með þeim 1903.

23. John Finnbogason kaupmaður, í Langruth, Man. Fæddur á Íslandi 1892. Hafði rekið verzlun í Langruth í rúmlega 50 ár. Tók mikinn þátt í félagsmálum byggðar sinnar.

24. Bergrós J. Helgason, kona Þorsteins (Steina) Helgason, á heimili sínu í Riverton, Man., fimmtug að aldri. Foreldrar: Halli Hallson og kona hans í Winnipeg.

30. Thorarinn J. Thorarinson, á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg, 71 árs gamall.

APRÍL 1963

2. Halldór Jóhannes Stefánsson, í Dauphin, Man. Fæddur á Seyðisfirði 5. marz 1882. Foreldrar: Stefán Jóhann Halldórsson og Sigríður Sigmundsdóttir. Fluttist með þeim vestur um haf til Winnipeg 1893. Hafði nærri samfellt í 50 ár verið fiski- og útgerðarmaður á vötnunum í Manitoba, og um nokkur ár aðstoðar fiskiveiðaumsjónarmaður fyrir fylkisstjórnina í Manitoba.

2. Mrs. Margrét Finnson, kona Sigfúsar Finnson, á sjúkrahúsinu í Árborg, Man., 51 árs gömul. Fædd að Víðir, Man., átti þar heima ævilangt, og tók mikinn þátt í félagslífi byggðar sinnar.

4. Edward Stefánson, að heimili sínu í Winona, Ont. Fæddur 24. apríl 1910 í Hólar byggðinni suður frá Leslie, Sask. Foreldrar: Jón J. Stefánsson og Arndís Guðmundsdóttir.

5. Thorkell Guðbrandur (Kelly) Brandson byggingameistari, á sjúkrahúsi í St. Boniface, Man., 57 ára gamall. Fluttist með foreldrum sínum vestur um haf, barn að aldri og átti síðan heima í Winnipeg.

6. Mrs. Kristín Swainson, ekkja Thorsteins Swainson, á elliheimilinu Betel að Gimli, Man., 89 ára. Hún kom vestur um haf til Kanada 1905, og átti fyrrum heima í Winnipeg.

12. Ólafur Steingrímur Thorsteinsson, að Húsavík, Man., á sjúkrahúsinu að Gimli., 78 ára gamall. Hann kenndi hljómlist í 35 ár og var kunnur fiðluleikari og fiðlusmiður með ágætum.

13. Joseph W. Thorgeirsson, að heimili sínu í Winnipeg. Fæddur á Akureyri 12. sept. 1877. Foreldrar: Þorgeir Guðmundsson gullsmiður og Sigríður Eyjólfsdóttir frá Hvammi í Eyjafirði. Kom vestur um haf til Winnipeg 1885 og átti heima þar í borg til æviloka. Prentari framan af árum, en rak síðar rjómabú og fleiri fyrirtæki.

23. Jóhann G. Stephanson, á heimili sínu í Selkirk, Man., 49 ára að aldri. Átti heima í Selkirk ævilangt og stundaði fiskiútgerð.

27. Oddrún Bjarnason, kona Ólafs Bjarnasonar (frá Arnarstapa í Borgarfirði) í Seattle, á elliheimilinu Stafholt í Blaine, Wash. Fædd 5. okt. 1884 að Miðhópi í Austur-Húnavatnssýslu. Foreldrar: Hallgrímur Þorláksson og Ingibjörg Þórarinsdóttir. Kom vestur um haf til Winnipeg aldamótaárið, og átti þar lengi heima, en í Seattle síðan 1924.

29. Guðmundur Strandberg, að heimili sínu í Winnipeg, 77 ára gamall. Fluttist barn að aldri til Kanada, átti fyrrum heima í Riverton, Man., en síðustu 40 árin í Winnipeg.

MAÍ 1963

3. Mrs. Jóhanna Sveinson, kona Kelly Sveinson, á heimili sínu í Selkirk, Man., 75 ára að aldri. Fædd á Gimli, Man. Foreldrar: Eggert Sigurdson og Þorbjörg kona hans, bæði ættuð frá Álftanesi í Mýrasýslu. Lengi búsett í Selkirk.

8. Mrs. Ingibjörg (Emma) Thordarson Swengel, í Phoenix-borg í Arizona-ríki í Bandaríkjunum. Fædd 12. júlí 1873, en fluttist nokkurra vikna gömul vestur um haf til Milwaukee, Wisconsin, með foreldrum sínum, Jóni Þórðarsyni (frá Skeri við Eyjafjörð) og Rósu Jónsdóttur (frá Syðra-Laugalandi og síðar Þverá í Eyjafirði), fjórum árum seinna til Winnipeg og ári síðar til Dakota (N.Dak.) Átti hún þar heima á ýmsum stöðum lengstum ævinnar, en seinustu árin í Portland, Oregon., og Phoenix.

9. Mrs. Abigale (Ella) Þórðardóttir Wells, kona Charles Wesley Wells, á elliheimilinu Stafholt í Blaine, Wash. Fædd í Hattardal í Álftafirði, Norður-Ísafjarðarsýslu, 4. sept. 1879. Foreldrar: Þórður Magnússon, bóndi og alþingismaður, og seinni kona hans, Guðrún Hafliðadóttir. Fluttist vestur um haf til Baldur, Man., með foreldrum sínum 1894, en skömmu eftir aldamótin til Blaine, Wash., og átti þar heima lengst af síðan. Ritfær vel, og skrifaði allmargar blaðagreinar, bæði á ensku og íslenzku, fyrir blöð vestan hafs.

10. Mrs. Helga Gróa Helgason, kona Helga J. Helgason landnámsmanns, í Foam Lake, Sask. Fædd í grennd við Churchbridge, Sask., 22. febr. 1893. Foreldrar: Guðbrandur og Anna Narfason, landnámshjón norðvestur af Foam Lake.

11. Jóhann Daníelson, að Hnausum, Man., 65 ára gamall.

14. Sigríður Johnson, fyrrum til heimilis að Vogar, Man., í Winnipeg, 72 ára að aldri. Fædd á Íslandi, en kom til Manitoba fyrir 55 árum.

15. Haraldur Marelíus Skaptason, á heimili sínu í Winnipeg, 49 ára gamall. Fæddur þar í borg, sonur Hallsteins (látinn) og Önnu Skaptason.

17. Daníel Halldórsson, á sjúkrahúsinu að Gimli, Man. Flutti frá Íslandi til Manitoba 1912 og stundaði fiskveiðar á Winnipegvatni. Fyrrum til heimilis að Hnausum, en síðari árin að Arnes, Man.

18. Drukknuðu í Tunguá í grennd við Cavalier, N.Dak., tveir drengir þaðan úr byggð: Dirk Allan Johnson, sonur Mr. og Mrs. Arni D. Johnson, 6 ára, og Devin Linn Björnson, sonur Mr. og Mrs. Magnús Björnson, 10 ára, en Magnús er nýlega látinn.

18. Steinunn Hillman, ekkja Jóns Péturssonar Hillman, að heimili sínu í Bantry, N.Dak. Fædd 1882 að Hóli í Tungusveit í Skagafirði. Foreldrar: Frímann Hannesson úr Seyluhrepp í Skagafirði og Helga Jóhannesdóttir frá Hóli í Tungusveit. Fluttist með foreldrum sínum vestur um haf til Winnipeg 1888, en síðan til N.Dakota og hafði síðan um aldamótin átt heima í Mouse Riverbyggðinni íslenzku þar í ríkinu.

19. Joseph Helgason, fyrrum til heimilis að Matheson Island, Man., á elliheimilinu Betel að Gimli Man., 79 ára gamall.

19. Pauline Loretta Laufey Thorlákson, á Almenna spítalanum í Vancouver, B.C. Foreldrar: Björn Þorláksson frá Stóru-Tjörnum (látinn fyrir fjölmörgum árum) og kona hans Inga Jóhannsdóttir Stefánsson (systir dr. Vilhjálms Stefánssonar), er bjuggu í Wynyard, Sask.

21. Robert F. Björnson, frá Cavalier, N.Dakota, á sjúkrahúsi í Winnipeg, af afleiðingum bílslyss. Fæddur í Cavalier 23. febr. 1930. Foreldrar: Matthías (Matt) og Guðný (Dínusson) Björnson, sem lengi hafa átt heima í Cavalier.

24. Hólmgeir Ísfeld, frá Selkirk, Man., á Almenna sjúkrahúinu í Winnipeg, 79 ára. Fluttist vestur um haf til Manitoba barn að aldri.

31. Kristjana Ragnheiður Johnson, ekkja Sveins Jónssonar (frá Borg í Skagafirði), á sjúkrahúsi í Grafton, N.-Dak. Fædd 20. júní 1877. Foreldrar: Kristján Guðmundsson og Kristín Bjarnadóttir frá Dröngum á Skagaströnd í Snæfellsnessýslu. Fluttist vestur um haf með foreldrum sínum 1881 í Eyfordbyggð í N.Dakota, og bjó þar allan sinn aldur.

**JÚNÍ 1963**

5. Mrs. Sigríður Ingibjörg (Sarah) Pepper, í Edmonton, Alberta. Fædd í Miðfirði í Húnavatnssýslu, en kom til Kanada 1911. Átti fyrst heima í Manitoba, en í Edmonton síðan 1921.

5. Halldór Thorvaldson, á heimili sínu í Winnipeg, 68 ára gamall. Fæddur í Brandon, Man., en átti heima í Winnipeg síðastliðin 48 ár.

9. Guðmundur Jakobson bóndi, í Árborg, Man., áttræður að aldri.

11. Pétur H. Christopherson, í Winnipeg, 81 árs gamall. Ættaður frá Argyle, Man. Foreldrar: Landnámshjónin Hermit og Þóra Kristofersson.

20. John Einar Goodman bóndi, að heimili sínu í Baldur, Man. Fluttist barn að aldri frá Íslandi með foreldrum sínum, ólst upp í Belmont, Man., en flutti á bújörð sína í Baldur 1917.

21. Valdimar Helgi Hannesson, á sjúkrahúsi í Cavalier, N.Dak. Fæddur að Mountain, N.Dak., 1895. Foreldrar: Frímann Hannesson frá Reykjahóli í Seiluhrepp í Skagafirði og Helga Jóhannesdóttir frá Hóli í Tungusveit í Skagafirði. Ólst upp í Mouse River byggðinni íslenzku í N.Dakota, en búsettur að Mountain síðan 1921.

24. Eli Bjarni Lindal Stefánson frá Elfros, Sask., á sjúkrahúsi í Saskatoon, Sask. Fæddur í Churchbridge, Sask., 28. okt. 1891. Foreldrar: Bjarni Stefánson og Elín Eiríksdóttir, talin ættuð úr Miðfirði í Húnavatnssýslu, en þau fluttu til Vesturheims 1883. Hann fluttist í Elfrosbyggð 1913.

25. Eggert (Edward) Magnússon Eggertson, á sjúkrahúsi í Winnipeg. Fæddur í Hnífsdal við Ísafjarðardjúp. Foreldrar: Magnús Ágúst Eggertsson frá Flatey á Breiðafirði og Petrína Sigrún Stefánsdóttir frá Arney á Breiðafirði. Hafði átt heima í Winnipeg síðustu 57 árin.

25. Þorsteinn Guðmundsson Bergmann, á sjúkrahúsi í Vancouver, B.C. Fæddur á Bjarnastöðum í Hvítársíðu í Mýrasýslu. 21. okt. 1872. Foreldrar: Guðmundur Bjarnason og Agnes Steinsdóttir. Fluttist vestur um haf 1911, átti fyrst heima í Nýja Íslandi, en fluttist þaðan vestur á Kyrrahafsströnd og var búsettur þar til dauðadags.

28. Jónína Thórun Paulson, ekkja Christian Paulson, í Langenburg, Sask., 89 ára að aldri. Fædd á Íslandi, en fluttist til Kanada 1878 og settist að í Winnipeg. Fluttist til Gerald, Sask., aldamótaárið, og átti þar heima fram á síðustu ár.

Júní — Miss O. Bergman, í Vancouver, B.C., níræð að aldri. Átti fyrrum heima í Winnipeg og Riverton, Man.

**JÚLÍ 1963**

1. Mrs. Guðbjörg Einarson, ekkja Sigurgeirs Einarson, á elliheimilinu Betel

að Gimli, Man., 94 ára gömul. Fluttist af Íslandi til Kanada 1886, en átti lengst heima að Hnausum, Man.

3. Mrs. Ingibjörg Thorvardson, ekkja Jónasar Thorvardson fyrrum í Winnipeg, í Pine Falls, Man. Fædd 26. júní 1879 að Innri Ásláksstöðum á Vatnsleysuströnd í Gullbringusýslu. Foreldrar: Freysteinn Jónsson og Kristín Eyjólfsdóttir. Fluttist með þeim 1886 vestur um haf í Þingvallabyggð, í grennd við Chruchbridge í Saskatchewan, ólst þar upp, en hafði lengstum átt heima í Winnipeg.

5. Miss Aðalbjörg Helgason, fyrrum til heimilis í Winnipeg, á elliheimilinu Betel að Gimli, Man.

5. Guðmundur Kristján Stephenson pípulagningarmeistari, á heimili sínu í Winnipeg, 74 ára gamall. Fæddur í Winnipeg og jafnan búsettur þar. Foreldrar: Landnámshjónin Vigfús Stefánsson frá Klungurbrekku á Skógarströnd í Snæfellsnessýslu og Kristín Guðlaugsdóttir úr sömu sýslu.

7. Mrs. Sophie Brynjólfsson, ekkja Sigfúsar Brynjólfsson fyrrum í Winnipeg, að Monte Rio, Calif., 77 ára að aldri. Átti um langt skeið heima í Winnipeg, en síðastliðin 39 ár í San Francisco, Calif.

8. Magnús Thorarinson, á sjúkrahúsi í St. Boniface, Man., 72 ára gamall. Fæddur í Reykjavík, en fluttist til Manitoba 1903.

10. John J. Lindal kaupmaður og bóndi, að Lundar, Man., 89 ára gamall. Fluttist vestur um haf til Norður-Dakota með foreldrum sínum 1887, en til Lundar byggðarinnar 1891. Átti árum saman sæti í sveitarráði og var í 12 ár umsjónamaður fiskveiða á Manitobavatni.

13. Jón Vídalín Magnússon frá Hnausum, Man., á sjúkrahúsinu að Gimli, Man., 78 ára að aldri. Fæddur að Hnausum. Foreldrar: Landnámshjónin Magnús Magnússon, bóndi og útgerðarmaður á Eyjólfsstöðum í Hnausabyggð, og Ingibjörg Magnúsdóttir. Stundaði fiskveiðar á Winnipegvatni mestan hluta ævinnar.

19. Fannie Skaptason Cook, ekkja William Cook, á sjúkrahúsi í Winnipeg, 73 ára að aldri. Fædd að Hnausum, Man., en hafði um langt skeið átt heima í St. James, Man. Hafði hlotið sérstaka viðurkenningu fyrir þátttöku í velferðarmálum heimaborgar sinnar.

19. Edna May Ísfeld, kona Fred Ísfeld, á Almenna spítalan um í Winnipeg, 49 ára gömul. Fædd í Winnipeg og búsett þar ævilangt.

27. Fanny Eymundsson, kona Stefáns Eymundsson, á heimili sínu í Vancouver, B.C., 75 ára að aldri.

30. Carl Björnsson, frá Lundar, Man., á sjúkrahúsi í Winnipeg, 67 ára gamall.

### ÁGÚST 1963

2. Mrs. Sigurveig Christoferson Dawe, á sjúkrahúsi í White Rock, B.C. Fædd að Grund í Argylebyggð í Manitoba 14. febr. 1884. Foreldrar: Landnámshjónin Sigurður og Caroline (Taylor) Christoferson. Var kennslukona á ýmsum stöðum í Manitoba og British Columbia framan af árum, en um langt skeið búsett í Crescent, B.C.

3. Sigþrúður Magnússon, ekkja Ólafs Magnússonar, á heimili sínu að Lundar, Man. Fædd 13. júní 1866 á Ketilsstöðum í Jökulsárhlíð í Norður-Múlasýslu. Hafði um langt skeið verið búsett vestan hafs.

3. Ingólfur Jóhannesson, bóndi í Argylebyggðinni, á sjúkrahúsi í Baldur, Man., 69 ára gamall. Fæddur í Winnipeg. Foreldrar: Þorfinnur Jóhannesson og Karólína Andrésdóttir. Hafði átt heima í Argylebyggðinni síðan á æskuárum.

7. John Johnson, í Selkirk, Man., 52 ára gamall. Hafði fyrrum átt heima í Mitchell, Ont., og Glenboro, Man.

7. Martha Helgason, kona Brynjólfs Helgasonar, í Vancouver, B.C. Fædd 26. apríl 1893 í Brúarbyggðinni í Argyle, Man. Foreldrar: Skúli og Guðrún Anderson, er voru í hópi allra fyrstu landnema í Argyle. Hafði átt heima í Vancouver síðan 1919.

9. Mrs. Guðlaug Sigurdson, á elliheimilinu Stafholt í Blaine, Wash. Fædd 28. des. 1884 að Akra, N.Dakota, en fluttist vestur til Blaine 1943.

10. Karl Grímson, á elliheimili í Wynyard, Sask. Fæddur á Íslandi, en fluttist níu ára gamall með móður sinni og tveim systkinum til Minnesota. Bjó framan af árum í N.Dakota, Raymond, Wash., og Edmonton, Alberta, en fluttist í Wynyardbyggð 1917.

19. Margret J. Thorberg, ekkja Einars Thorberg, frá Riverton, Man., á elliheimilinu Betel að Gimli, Man., 82 ára að aldri. Hafði átt heima í Riverton síðan hún fluttist vestur um haf til Kanada.

20. Björn (Barney) Johnson, í Regina, Sask. Fæddur að Kýrholti í Viðvíkur-

sveit í Skagafjarðarsýslu 21. júlí 1897. Foreldrar: Jónas Jónsson frá Höfða í Suður-Þingeyjarsýslu og Helga Gunnlaugsdóttir, ættuð frá Hvammi í Laxárdal ytri. Fluttist með þeim vestur um haf til N.Dakota 1902, en til Wynyard, Sask., 1906. Framan af árum bóndi að Wynyard, en á seinni árum búsettur í Regina. Mikill forystu- og áhrifamaður í samvinnuhreyfingunni í Saskatchewan og Kanada, og skipaði margar trúnaðarstöður í samvinnufélögum.

21. Magnús Egill Johnson, á Ganges Salt Spring Island, B.C., 69 ára gamall. Fæddur á Íslandi, en kom til Kanada 1898. Átti fyrr á árum heima í Riverton, Man., en í Winnipeg frá 1944 til 1958, er hann fluttist til Ganges Salt Spring Island.

31. Kristveig Guðmundsson, ekkja Guðmundar F. Guðmundsson, á sjúkrahúsi í Wadena, Sask. Fædd að Hróarstöðum í Suður-Þingeyjarsýslu 28. maí 1898. Foreldrar: Björn Jónsson Axfjörð frá Ytri-Tungu á Tjörnesi og Valgerður Þorláksdóttir frá Garði í Þistilsfirði. Fluttist með þeim vestur um haf í Argylebyggð í Manitoba 1903, en til Leslie, Sask., 1910. Hafði lengstum átt heima í Hólarbyggð þar í grennd.

## SEPTEMBER 1963

8. Björn Stefánsson, lögfræðingur og fyrrv. lögregludómari að Carmen, Man., á heimili sínu í St. Charles, Man. Fæddur á Litla-Bakka í Hróarstungu í Norður-Múlasýslu 19. jan. 1887. Foreldrar: Stefán Björnsson og Guðríður Björnsdóttir. Fluttist með þeim vestur um haf til Mary Hill, í grennd við, Lundar, Man. Stundaði árum saman lögfræðistörf í Winnipeg.

10. John Albert Stevenson bóndi, að Walhalla, N.Dak., 63 ára gamall. Foreldrar hans voru þau Björn (Barney) og Kristjana Stevenson, landnemar í Hallsonbyggð í N.Dakota.

19. Mrs. Guðbjörg Campbell, á Almenna sjúkrahúsinu í Vancouver, B.C. Fædd 6. febr. 1882 í Winnipeg. Foreldrar: Jón og Guðrún Þórðarson, er bjuggu síðar í Glenboro, Man. Fluttu vestur til British Columbia nokkru eftir aldamótin.

22. Joseph Björn Frederickson, í Vancouver, B.C.

25. Ottar Sveinson smiður, að heimili sínu í Blaine, Wash., áttræður að aldri. Fæddur að Gimli, Man., en hafði átt heima í N.Dakota og Illinois áður en hann flutti til Blaine 1944.

25. Olavía Johnson saumakona, á elliheimilinu Betel að Gimli, Man., 87 ára gömul. Fædd á Seyðisfirði. Foreldrar: Nikulás Jónsson og Þórunn Pétursdóttir. Fluttist með þeim vestur um haf 1883 til Hallson, N.Dakota, en hafði átt heima í Winnipeg í 60 ár.

25. Ragnhildur J. Johnson kennslukona, á elliheimilinu Betel að Gimli, Man. Fædd á Íslandi, en fluttist vestur um haf til Manitoba 1892 með foreldrum sínum, er voru frumbyggjar í Siglunes- og Lundarbyggðum í Manitoba.

25. Magnús W. Jónsson, frá St. Vital, Man., á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg, 76 ára.

26. Sigurður Sigurðson, frá Vancouver, B.C., af slysförum í Prince George, B.C. Fæddur að Baldur, Man., 15. maí 1885. Foreldrar: Hjörtur Sigurðsson og María Sigurðardóttir frá Ingjaldsstöðum í Þingeyjarsýslu, er námu land í grennd við Baldur og bjuggu þar til 1912, en fluttu þá til Blaine, Wash. Lengi bóndi skammt frá Raymore, Sask., en átti heima í Vancouver nokkur síðustu árin.

27. Benedict Peterson, að heimili sínu í Saskatoon, Sask., 81 árs gamall. Fæddur að Hensel, N.Dak., en flutti til Elfros, Sask., 1912, bóndi í Wynyard til 1924, en hafði átt heima í Saskatoon síðan 1930.

28. Alexander Lawrence Benson, í Chicago, Illinois. Fæddur í Winnipeg 16. apríl 1893. Foreldrar: Egill Benediktsson, ættaður úr Skagafirði, og Lovísa kona hans, ættuð úr Færeyjum.

## OKTÓBER 1963

2. Þórhallur Magnús Hjálmarsson verkfræðingur, í San Diego, Calif. Fæddur nálægt Akra, N.Dak., 15. jan. 1893. Foreldrar: Halldór Hjálmarsson og Margrét Björnsdóttir Halldóssonar, bæði af austfirzkum ættum. Flutti til Los Angeles, Calif., 1921, bjó þar í mörg ár og vann að verkfræðilegum störfum, meðal annars í Suður-Ameríku og Austurlöndum á vegum Bandaríkjastjórnar, en hin síðari ár sem byggingameistari í San Diego.

4. Percy G. Helgason, á sjúkrahúsi í Winnipeg, sextugur að aldri.

7. Dr. Kristján Jónsson Austmann, frá Winnipeg, í Toronto, Ontario. Fæddur í Glenboro, Man., 25. sept. 1890. Foreldrar: Jón Ólafsson, alþingismaður og ritstjóri, og Þóra Þorvarðardóttir, ættuð úr Borgarfirði syðra. Kristján var

stjúpsonur Jóns Austmanns, er gekk honum í föðurstað. Lauk læknaprófi á Manitobaháskóla 1921, og gengdi síðan læknisstörfum, um 10 ár í Wynyard, Saskatchewan, en annars í Winnipeg. Bókamaður mikill, ættfræðingur og ritfær vel.

9. Dr. Tryggvi J. Oleson, prófessor í sagnfræði við Manitobaháskóla, á sjúkrahúsi í Winnipeg. Fæddur í Glenboro, Man., 4. maí 1912. Foreldrar: Guðni Júlíus Oleson, fæddur í Nýja Íslandi, en ættaður af Austfjörðum, og Kristín Tómasdóttir, fædd á Hólum í Hjaltadal, en fluttist ung vestur um haf. Víðkunnur og afkastamikill fræðimaður, sem ritað hafði merk sagnfræðirit bæði á íslenzku og ensku, og hafði einnig tekið mikinn þátt í vestur-íslenzkum menningar- og félagsmálum.

10. John Thorsteinson, fyrrum lengi til heimilis að Steep Rock, Man., á Gimli, Man., þar sem hann hafði átt heima síðustu sex árin, 74 ára að aldri.

13. Vigfús S. Benediktsson, 87 ára gamall, að heimili sínu á Gimli, Man., en þar hafði hann átt heima síðan hann flutti frá Íslandi 1903. Stundaði fiskveiðar á Winnipegvatni.

17. John P. Frederickson í Vancouver, B.C.

17. Mrs. Sigurrós Júlíana Gudmundson Densmore, ættuð frá Riverton, Man., á heimili sínu í Selkirk, Man., 47 ára gömul.

19. Thórunn Florence Stuart, ekkja Charles Stuart, á elliheimilinu Betel að Gimli, Man., 94 ára að aldri. Fædd á Íslandi en fluttist til Kanada 1882. Fyrrum búsett í Melville, Sask., en síðustu þrettán árin á Betel.

21. Bergman Flóvent Jónasson, frá Lundar, Man., á sjúkrahúsinu í Eriksdale, Man., 77 ára gamall. Fæddur í Riverton, Man., en hafði verið bóndi í Lundarbyggðinni í 65 ár.

22. Kristinn Ármann Kristinson, að heimili sínu í Arborg, Man., 76 ára að aldri. Fæddur að Geysir, Man., og var bóndi þar í byggðinni þangað til hann flutti til Arborgar 1952.

24. Einar Jón Magnússon, frá Selkirk, Man., á sjúkrahúsi í Winnipeg, 73 ára gamall. Flutti af Íslandi til Kanada 1910, settist fyrst að á Hnausum, Man., en hafði átt heima í Selkirk síðan 1916. Mikill áhugamaður um vestur-íslenzk félags- og menningarmál.

26. John Andrew Gudmundsen, að heimili sínu í Wittier, Calif., 71 árs að aldri. Fæddur á Washington Island í Wisconsin. Foreldrar: Landnámshjónin Árni Þórðarson Gudmundsen frá Eyrarbakka og Jóhanna Knudsen. Um mörg ár búsettur í Michiganríki.

28. Dr. Haraldur Sigmar, fyrrv. forseti Hins Evangeliska Lúterska Kirkjufélags Íslendinga í Vesturheimi, á sjúkrahúsi í Kelso, Wash. Fæddur í Argylebyggð í Manitoba 20. okt. 1885. Foreldrar: Sigmar Sigurjónsson frá Einarsstöðum í Reykjadal í Þingeyjarsýslu og Guðrún Kristjánsdóttir frá Hólum í Reykjadal í sömu sveit, er námu land í Argylebyggðinni 1883. Átti sér að baki nærri hálfrar aldar prestsstarf hjá íslenzkum söfnuðum í Wynyard, Sask., Norður-Dakota, Vancouver, B.C., og Blaine, Wash., og kom því mikið við kirkjumála- og aðra félagsmálasögu Íslendinga vestan hafs.

## NÓVEMBER 1963

2. Hallgrímur B. Hallgrímsson, frá Argyle, Man., á Almenna spítalanum í Winnipeg, 64 ára gamall.

3. Guðbjörg (Bertha) Vilhelmína Ingimundardóttir Daníelson, ekkja Andrésar (Andrew) Daníelsson ríkisþingmanns, á elliheimilinu Stafholt í Blaine, Wash. Fædd að Gautsdal, Bólstaðarhlíðarhreppi, Austur-Húnavatnssýslu, 24. ágúst 1870. Foreldrar: Ingimundur Sveinsson, Tungubakka, Fremri-Laxárdal, og Júlíana Ingibjörg Ólafsdóttir. Fluttist vestur um haf til Winnipeg 1899, fór ári síðan til Seattle, en hafði átt heima í Blaine síðan 1905. Forystukona í félagsmálum Íslendinga þar í borg.

10. Allan Joseph Peterson, að heimili sínu á Gimli, Man., 35 ára gamall. Sonur Peters (látinn) og Valdine Peterson.

13. Guðmundur J. Johnson rakarameistari, í Winnipeg, 73 ára að aldri. Hafði lengi rekið rakarastofu þar í borg.

14. Jónína Ingibjörg Thorkelson, kona Ágústs Thorkelson, frá Gimli, Man. Fædd þar, dóttir Pálma Lárussonar og konu hans, frumbyggja á Gimli.

17. Christine Ingibjörg (Isabel) Farmer, frá East Kildonan, Man., á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg, 71 árs gömul. Fædd að Garðar, N.Dakota, dóttir Josephs og Sigríðar Lindal, og flutti með þeim á barnsaldri til Lundar, Man.

23. John Gilson (Jón Ingvarsson), í Chichago, Ill., 68 ára gamall. Sonur

Ingvars Friðrikssonar beykis og Ágústu Jónsdóttur á Eyrarbakka. Kom vestur um haf til Bandaríkjanna 18 ára gamall. Hafði um langt skeið rekið rafmagnsiðnaðarfyrirtæki.

27. Jóhann Sigmundson smiður, í Vancouver, B.C., 86 ára að aldri. Átti lengi heima í Winnipeg, en fluttist til Vancouver fyrir 13 árum.

28. Franklin Lindal, á heimili sínu í Winnipeg, 57 ára gamall. Átti lengstum heima í norðurhluta Manitobafylkis, stundaði þar veiðar og rak verzlun.

30. Mrs. Sigrún Martin, ekkja Einars Martin, á sjúkrahúsi í Prince George, B.C. Fædd að Hnausum, Man., og átti þar lengi heima, en síðustu árin í McBride, B.C.

30. Ingi G. Brynjólfsson, á heimili sínu í Woodale, Ill., í nágrenni Chicago.

**DESEMBER 1963**

10. Mrs. Margrét Johnson, ekkja Halldórs Johnson fasteignasala, í Winnipeg. Fædd á Íslandi, dóttir séra Einars Vigfússonar og Bjargar Jónsdóttur konu hans. Fluttist til Manitoba fyrir 60 árum, og átti heima í Winnipeg til æviloka.

11. Christian Thorsteinsson, að heimili sínu í Winnipeg, áttræður að aldri. Fæddur í Edinburg, N.Dak., en flutti til Kanada 1919.

14. Hjörtur Jónasson, Víðir, Man., á sjúkrhúsinu í Árborg, Man., 65 ára gamall. Fæddur að Hnausum, Man., en bóndi í Víðirbyggð ævilangt.

15. Mrs. Guðrún S. Christopherson, kona Kjartans Christopherson fasteignasala, að heimili sínu í San Francisco, Calfi., 66 ára að aldri. Fædd að Point Roberts, Wash. Foreldrar: Thorsteinn Thorsteinsson (Stone Stoneson) frá Hraunskoti í Borgarfirði syðra og Ingibjörg Einarsdóttir frá Stafholti í sömu sveit, er lengstum bjuggu í Blaine, Wash. Fluttist til San Francisco fyrir 27 árum.

22. Mrs. Anna Kristjana Finnson, ekkja Kambínusar Guðjónssonar, á heimili sínu í Winnipeg. Fædd að Vatni í Haukadal, Dalasýslu, 22. sept. 1895. Foreldrar: Halldór Jónsson og Guðfinna Kristmannsdóttir. Fluttist með þeim vestur um haf 1901, og hafði átt heima í Winnipeg, að undanskildum tólf árum í Churchbridge, Sask.

22. Jón Ragnar Johnson, bóndi og útgerðarmaður, að Wapah, Man. Fæddur á Eskifirði 9. febr. 1884. Foreldrar: Gísli Jónsson og Sigrún Árnadóttir. Fluttist vestur um haf með foreldrum sínum og systkinum 1903, og átti lengstum heima að Wapah við Manitobavatn. Annaðist póstafgreiðslu og póstflutninga um 30 ára skeið. Forystumaður í öllum félagsmálum og ritari skólanefndar árum saman. Einnig ritarfær vel.

24. Jón Axel Jónsson, að heimil sínu á Victoria Beach, Man., 68 ára að aldri. Fæddur í Selkirk, Man. Foreldrar: Jón Jónsson frá Torfastöðum í Jökulsárhlíð í Norður-Múlasýslu og Guðlaug Sigfúsdóttir frá Straumum í Hróarstungu sömu sýslu, er áttu heima í Selkirk.

25. Mrs. María Halldórson, ekkja Kristjáns Halldórsonar, lézt á elliheimilinu „Borg“ á jóladagsmorgun, 93 ára. Hún var fædd á Hólum í Skagafirði, á Íslandi, 28. maí 1870. Foreldrar: Rögnvaldur Jónsson og Ólöf Kjartansdóttir.

27. Björn Kelly, að heimili sínu í Selkirk, Man., 85 ára gamall. Fæddur á Íslandi, en settist að í Selkirk 1886, og var einn af fyrstu íbúum þess bæjar. Um 40 ára skeið starfsmaður Kanadastjórnar á Norðurvötnunum.

28. Randver Sigurdson múrarameistari, að heimili sínu í Winnipeg. Fæddur að Svignaskarði í Borgarfirði 18. febr. 1890. Foreldrar: Sigurður Sigurðsson bóndi og hreppstjóri þar og seinast á Rauðamel og Ragnheiður Þórðardóttir. Fluttist með foreldrum sínum og systkinum til Kanada 1901, og hafði lengst af átt heima í Winnipeg.

Des. — John E. Melsted smiður, í Chruchill, Man., 53 ára gamall. Átti fyrrum heima að Árnes, Man., og í Winnipeg, en síðustu sex árin í Churchill.

# Fertugasta og fjórða ársþing Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi

Fertugasta og fjórða ársþing Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi var sett af forseta þess, dr. Richard Beck, í Góðtemplarahúsinu við Sargentstræti, mánudaginn 18. febrúar 1963, kl. 10 f.h.

Að lokinni bænagerð dr. Valdimars J. Eylands flutti forseti ársskýrslu sína. sem hér fer á eftir:

Heiðruðu fulltrúar og gestir!

Fyrir allmörgum árum átti ég þess kost að dvelja í Árnasafni í Kaupmannahöfn, en þar eru, eins og alkunnugt er, varðveitt íslenzk handrit svo hundruðum skiptir, meðal þeirra mörg hin merkustu og dýrmætustu slíkra rita vorra, þótt sumar allra mestu gersemar þeirra, svo sem **Konungsbók** og **Flateyjarbók**, sé annars staðar að finna.

Þessa stund í Árnasafni fannst mér sem ég stæði á vígðri íslenzkri grund, eða öllu heldur í musteri, þar sem helgir dómar þjóðar minnar, dýrkeypt afrek anda hennar og handa, umkringdu mig á alla vegu. Ekki varð lotningartilfinning mín minni, þegar ég fékk að handleika handrit sjálfrar **Snorra-Eddu.** Og er ég gaf gætur að handritunum mörgu á hillum safnsins, skildi ég betur en áður djúpan sannleik orða safnvarðarins, dr. Jóns Helgasonar prófessors, í snjöllu og stórbrotnu kvæði hans „Í Árnasafni“:

Undrandi renndi ég augum með bókanna röðum:
eljuverk þúsunda, varðveitt á skrifuðum blöðum.
Hvar sem ég fletti, við eyru mér ólguðu og sungu
uppsprettulindir og niðandi vötn minnar tungu.

Eðlilega varð mér þá ríkara í huga heldur en endranær, hversu ómetanlega auðlegð vér Íslendingar eigum, þar sem handrit vor eru og þær sérstæðu og lífrænu bókmenntir, sem skráðar eru innan spjalda þeirra, og spegla andlega iðju þjóðar vorrar, harðsótta baráttu hennar fyrir tilveru sinni öldum saman, drauma hennar og vonir.

Í nýjustu kvæðabók Davíðs Stefánssonar frá Fagraskógi, **Í dögun**, er merkilegt og tímabært kvæði um íslenzku handritin. Í upphafserindum þess lýsir skáldið því eftirminnilega, hvernig þessi handrit urðu til í fyrstu, og hver uppspretta andlegrar orku og vakningar þau voru íslenzku þjóðinni, ekki sízt á mestu andstreymisöldum hennar, þegar erlend kúgun og harðæri bundu henni þyngstar byrðar:

Þeir slátruðu kálfum, eltu skorpin skinn
og skráðu á letur, mikil og ægifögur.
Fræðimenn skáru fjaðurpenna sinn
í fannbörðu hreysi norður við yztu gjögur.
Þar krotuðu bræður við kolunnar glæður
kvæði og ættarsögur.

Lengi bárust ritin frá manni til manns
við mánaglætuna lesin oft og víða.
Þau voru eini fjársjóður fátæks lands
í forlagastormum myrkvaðra hungurtíða.
Sagnanna andi varð sviknu landi
sólskin og veðurblíða.

Þessa dagstund á Árnasafni fagnaði ég því af heitum og þakklátum huga, að vera sonur þeirrar þjóðar, sem þrátt fyrir smæð sína og hin andvígustu kjör öld eftir öld, hafði átt skapandi gáfu og elju til þess að vinna þau afrek, er handritin íslenzku bera fagurt vitni. En sú fagnaðarkennd var harmi þrungin og sársauka, er ég minntist þess, hve langur dráttur varð orðinn á því, að Íslendingar endurheimtu þessa dýrmætu fjársjóðu sína. Ekki verður barátta þeirra að því marki rakin hér, en mikið ánægjuefni má það vera oss Íslendingum vestan hafs, eigi síður en löndum vorum heima á ættjörðinni, að fyrir vaxandi skilning á þessu réttlætismáli voru og drengilega afstöðu margra Dana til þess, er svo langt komið, að danska Þjóðþingið hefir samþykkt að afhenda Íslendingum meginhluta þeirra. Má þess vegna telja það víst, að sú farsællega lausn þessa deilumáls sé eigi langt undan landi, enda hefir Alþingi þegar samþykkt stofnun og starfrækslu Handritastofnunar á Íslandi, og hinn ágætasti maður verið skipaður forstöðumaður hennar, en það er dr. Einar Ól. Sveinsson prófessor, sem oss Íslendingum hér í álfu er að góðu kunnur, bæði af gagnmerkum ritum sínum um íslenzk-

ar bókmenntir og útgáfum fornsagna vorra, og af kærkominni heimsókn sinni og fyrirlestrahöldum hér vestan hafs. Meðal hinna mörgu bóka hans er einmitt prýðilegt rit um Handritamálið, sem var eitt af ritum Hins íslenzka Bókmenntafélags 1959. Eftir að hafa réttilega harmað það, hve mikið hefir á liðnum öldum glatazt af andlegum verðmætum íslenzku þjóðarinnar, lýkur hann riti sínu með þessum eftirtektarverðu orðum um bókmenntalegt og menningarsögulegt gildi handrita vorra:

„Eftir eru handrit, sem geyma orðlist Íslendinga, mynd þeirra af mannlífinu, mynd þeirra af dýrð mannsins og eymd, glímu þeirra við guð sinn, eins og þeir hafa tjáð þessi efni í stuðla skorðum eða í lausu máli. Leiðin til bókmennta þjóðarinnar, „leiðin til Hlíðarenda“, liggur til uppsprettu lífs þeirra sem þjóðar. Þessar bókmenntir eru hornsteinninn, sem menning þeirra er reist á, jafnvel sem tilvera þeirra er reist á. Og af því að þessar bókmenntir eru enn lifandi, eru þær rótin, sem dregur safann úr mold fortíðarinnar og gefur hann lifandi, gróandi, grænum, greinum menningar dagsins í dag“.

Segja má, að hér sé komið að **hjartanu,** aflvakanum, í allri þjóðræknislegri viðleitni vor vestan hafs frá allra fyrstu tíð og fram á þennan dag. Hún er byggð á meðvitundinni um það, hve djúpum rótum vér stöndum, ætternislega og menningarlega, í íslenzkum jarðvegi, og samtímis á heilbrigðum skilningi á því, hve nauðsynlegt oss sé það, ef vér eigum ekki að verða rótslitnir kvistir á lífsins meið, að halda áfram að vera í sem nánustum tengslum við vora þjóðernislegu menningarmold, og draga andlega næringu úr lífrænum erfðum vorum: — tungu vorri, sögu og bókmenntum. Af þeirri meðvitund og þeim skilningi sprettur svo löngunin til þess, ljósu letri skráð í stefnuskrá og starfi þessa félagsskapar, að oss beri, ef þegnskuld vor á að vera goldin til fulls, að gera sem ávaxtarríkast í hérlendu þjóðlífi hið bezta og fegursta í ættarerfðum vorum, andleg verðmæti, sem lifað hafa aldirnar, af því að þau áttu þann mátt lífs og listar, sem eldist ekki. Dr. Jóni Þorkelssyni (Forna) mæltist spaklega, er hann segir í einu kraftakvæða sinna:

Hið mikla geymir minningin,
en mylsna og smælkið fer.

Fyrrgreind stefunskrá félags vors, og framkvæmd hennar eftir mætti í störfum þess, hefir þá einnig frá upphafi vakið bergmál í hugum góðra Íslendinga hér vestan hafs, verið það aðdráttarafl, sem laðað hefir þá svo hundruðum skiptir frá ári til árs, til stuðnings við göfugan málstað félagsins, þótt fylking hinnar eldri kynslóðar þynnist óðfluga með ári hverju. Á síðastliðnu starfsári höfum vér átt á bak að sjá úr hópi vorum mörgum ágætum félagssystkinum, en þau eru þessi, eftir því, sem mér er kunnugt:

Dr. Vilhjálmur Stefánsson, Hanover, New Hampshire, heiðursfélagi; séra Eiríkur S. Brynjólfsson (hafði verið embættismaður í deildinni „Ströndin“), Vancouver; Páll S. Pálsson skáld (hafði átt sæti í stjórnarnefnd félagsins og safnaði auglýsingum fyrir **Tímarit** þess), Gimli; Benedikt Ólafsson (vara-skrifari deidlarinnar „Fróns“), Winnipeg; Jón Jónatansson skáld, Winnipeg; C. H. Ísfjord (lengi embættismaður deildarinnar „Ströndin“), Vancouver; J. A. Sveinsson, Baldur; Mrs. Anna Halldórsson, Winnipeg; Thorgerður Thordarson, „Betel“, Gimli; K. N. S. Friðfinnson, Árborg; Erling Guðmundson, Mountain; Gestur Gestson, Mountain; Th. Ísdal, „Höfn“, Vancouver; Bjarni Sveinsson, „Höfn“, Vancouver; Mrs. Ingibjörg Pálsson, Selkirk! Marus Benson, Selkirk; Thórunn Jóhannson, Selkirk; Miss Ljótunn Thorsteinsson, Gimli; Mrs. Þórhalla Elísabet Arngrímson; Mrs. Lárus Johnson, Lundar.

Vér vottum aðstendendum þessarar starfsmanna vorra og kvenna innilega samúð vora, en minningu þeirra heiðrum vér með því að rísa úr sætum.

Vitur maður hefir sagt: „Þakkarskuldin er eina skuldin, sem auðgar manninn.“ Minnug þess, skulum vér láta þakkahhugann til hinna horfnu félagssystkina verða oss hvatning til dáða málstað vorum til eflingar.

Af þeim sjónarhóli skal þessu næst horft yfir liðið starfsár. Stjórnarnefndin hefir, eins og að undanförnu, á allmörgum fundum leitazt við að ráða fram úr þeim málum, sem seinasta þjóðræknisþing fól henni í hendur, og úr öðrum þeim málum, sem komið hafa til kasta hennar. Þakka ég nefndinni ágæta samvinnu að vanda á árinu.

Starfsemi félagsins hefir nú sem áður fallið í tvo megin farvegi, innbyrðis, meðal vor Íslendinga sjálfra, víðsvegar um álfuna; hinsvegar, samstarfið við Ísland og Íslendinga heima á ættjörðinni. En eðlilega er starfsemi félagsins þannig vaxin, að þessir tveir aðal straumar hennar renna með mörgum hætti í einn farveg.

**Útbreiðslu- og fræðslumál**

Að þessum málum, sem ávalt eru meginþættir í starfi félagsins, hefir stjórnarnefndin unnið eftir beztu getu og

aðstæðum, en jafnframt notið í þeim efnum góðrar aðstoðar ýmissa velunnara félagsins nær og fjær.

Fyrrv. forseti félagsins og heiðursfélagi, dr. Valdimar J. Eylands, hefir nú sem áður í ræðu og riti slegið á þjóðræknisstrenginn og hvatt til varðveizlu íslenzkra menningarerfða. Hann er einnig jafnan reiðubúinn til þess að verða félagi voru að liði, þegar til hans er leitað.

Varaforseti, séra Philip M. Pétursson, flutti ræðu á samkomum deildanna í Selkirk og á Lundar. Í fjarveru forseta, afhenti hann Hon. Duff Roblin, forsætisráðherra Manitobafylkis, heiðursfélagaskírteini Þjóðræknisfélagsins við virðulega athöfn, að viðstöddum flestum stjórnarmönnum félagsins. Varaforseti hafði einnig samkomustjórn með höndum í hádegisverði þeim, sem félagið hélt til heiðurs ferðamannahópnum frá Íslandi, og ávarpaði hina góðu gesti í félagsins nafni. Einnig flutti hann kveðju Þjóðræknisfélagsins á Íslendingadeginum að Gimli. Votta ég honum innilega þökk fyrir fulltrúastörf hans vegna fjarvistar minnar.

Ritari félagsins, prófessor Haraldur Bessason, hefir á liðnu ári eins og undanfarið verið athafnamikill að útbreiðslu- og fræðslumálunum. Síðastliðið vor ferðaðist hann vestur á Kyrrahafsströnd og flutti erindi á samkomum deildanna í Vancouver og Blaine; ennfremur á samkomum deildanna í Selkirk, Árborg og að Gimli, á almennri samkomu í Glenboro, og á sumarmálasamkomu í Winnipeg. Hann skipar forsetasess í deildinni „Frón“ og á einnig sæti í Íslendingadagsnefndinni. Auk þess hefir hann á árinu ritað mikið í vikublað vort, og annaðist ritstjórn þess meðan ritstjórinn var í Íslandsferð sinni, er síðar getur. Í þágu fræðslumálanna mun og mega telja Leskaflana í íslenzku handa byrjendum, sem ritari og forseti hafa samið og komið hafa um skeið í **Lögbergi-Heimskringlu**, og átt hafa vinsældum að fagna, og þá væntanlega að einhverju gagni komið.

Vararitari, Walter J. Lindal dómari. Hefir ritað fjölda greina um íslenzk málefni og menningarerfðir í **Icelandic Canadian** og víðar. Eins og kunnugt er, varð hann nýlega 75 ára, og lét þá af dómaraembætti sínu, eftir 20 ár í þeim sessi við ágætan orðstír. Var honum á þeim tímamótum, að verðugu, margvíslegur sómi sýndur. Vér vottum honum virðingu vora og þökk fyrir unnin störf, ekki sízt að félagsmálum vorum, og óskum honum sem lengstra og hamingjuríkastra ævidaga.

Féhirðir, Grettir L. Johannson ræðismaður, flutti ávarp í embættisnafni á Íslendingadeginum að Gimli, ræðu í veizlu Þjóðræknisfélagsins til heiðurs ferðamannahópnum heiman um haf, og erindi á samkomu Icelandic Canadian Club um efnahagsmál á Íslandi.

Varaféhirðir, frú Hólmfríður Daníelson, skemmti með upplestri íslenzkra kvæða á samkomum deilda félagsins í Selkirk, á Lundar, í Árborg, á Gimli og í Winnipeg. Fyrir hönd félagsins annaðist frú Hólmfríður einnig og undirbjó að öllu leyti, þátttöku Íslendinga í fjölsóttri skrúðsýningu, er fór fram undir umsjón Winnipeg Y.MC.A. í sambandi við fimmtugasta ársþing aðalfélagsins (National Council of Y.M.C.A.). Þótti íslenzka sýningin, sem var táknræn um bókmenntaiðju og menningarlíf þjóðar vorrar, tilkomumikil og takast prýðilega.

Fjármálaritari, Guðmann Levy, hefir, jafnhliða embættislegu starfi sínu, er útheimtir eigi litlar bréfaskriftir, og ýmsum nefndarstörfum, haft með höndum söfnun auglýsinga fyrir **Tímarit** félagsins, með aðstoð féhirðis, og skuldar félagið þeim sérstaka þökk fyrir það starf. Fjármálaritari á einnig sæti í stjórnarnefnd „Fróns“.

Vara-fjármálaritari, Ólafur Hallsson, flutti ræðu um íslenzkar menningarerfðir á deildarsamkomu í Selkirk og Minni Kanada á Íslendingadeginum að Gimli.

Skjalavörður, Jakob F. Kristjánsson, gegnir, auk þess embættis síns, varaforsetaembætti í deildinni „Frón“, og er ritari Íslendingadagsnefndarinnar.

Forseti flutti ræðu um þjóðræknis- og menningarmál á samkomum deildanna í Selkirk, að Lundar, í Vancouver, Blaine og Seattle. Ennfremur flutti hann erindi um dr. Vilhjálm Stefánsson á deildarsamkomum í Árborg, að Gimli, og í Winnipeg, og ræðu um sama efni við minningarguðþjónustu að Mountain, N.-Dakota, er síðar var útvarpað frá útvarpsstöð Ríkisháskólans (Univ. of North Dakota) í Grand Forks, N.-Dakota. Einnig flutti forseti kveðju félagsins á Íslendingadeginum í Blaine, ræður í tilefni af Lýðveldisdegi Íslands við guðsþjónustur í Hallson og Vídalínskirkjum í N.-Dakota, og erindi um íslenzk efni og norræn á ársþingi félags Rogalendinga Vesturheimi í Fargo, á Leifs Eiríkssonarhátíð í Minneapolis og Kennaraskólanum í Mayville, N.-Dak. Frú Margrét Beck sýndi og skýrði litskuggamyndir frá Íslandi á deildasamkomunum í Selkirk, á Lundar, í Árborg, að Gimli og í Winnipeg, og ennfremur á kvöldsamkomu Rogalendinga í Fargo.

Á árinu hefir forseti ritað margt um íslenzk efni í blöð og tímarit austan hafs og vestan, meðal annars yfirlitsgreinar um íslenzkar bókmenntir fyrir tvö ný alfræðirit í Bandaríkjunum.

Eins og framanskráð frásögn ber með sér, mun óhætt mega segja, að heimsóknir til deilda af hálfu stjórnarnefndar félagsins hafi verið með mesta móti á árinu, og er mér það óblandið fagnaðarefni, því slíkar heimsóknir eru nauðsynlegar til eflingar starfsemi deildanna, viðurkenning á grundvallandi starfi þeirra í félaginu og um leið hvatning til framhaldandi viðleitni af þeirra hálfu. Ber oss að hafa það hugfast í framtíðinni, og styðja deildirnar með ráðum og dáð. Vil ég svo í nafni félagsins þakka innilega þær ágætu viðtökur, sem við hjónin, og þeir, sem með okkur voru í heimsóknum til deildanna, áttum alls staðar að fagna af hálfu deildafólks. Veit ég, að hinir aðrir úr stjórnarnefndinni, sem heimsóttu deildir vorar á árinu, hafa sömu sögu að segja hvað viðtökurnar snertir.

**Brú frændseminnar yfir hafið**

Margar stoðir hafa á liðnu ári runnið undir þá brú ætternis og erfða, sem tengir oss Íslendinga yfir hið breiða haf. Gagnkvæmar heimsóknir voru óvenjulega miklar á árinu. Meðal heimfarenda til ættjarðarstranda þykir mér ástæða til að nefna þá, er næst standa félagi voru, vegna starfsemi þeirra í þjóðræknismálunum.

Ritstjóri **Lögbergs-Heimskringlu**, fyrrv. ritari Þjóræknisfélagsins og fyrrv. forseti deildarinnar „Fróns", frú Ingibjörg Jónsson, dvaldi á Íslandi ágústmánuð, í boði Vestmannaeyinga; flutti hún ræðu á sögulegri þjóðhátíð þeirra í byrjun þess mánaðar, og ferðaðist síðan allvíða um landið. Óskum vér frú Ingibjörgu innilega til hamingju með þann verðskuldaða heiður, sem henni var sýndur með þessu heimboði.

Þær óskir taka einnig til Heimis Thorgrimsson, fyrrv. forseta deildarinnar „Fróns", er dvaldi heima á ættjörðinni þriggja vikna tíma í júnímánuði í boði Þingeyingafélagsins í Reykjavík og annara sveitunga sinna í Þingeyjarsýslu.

Skylt er að geta þess, að Þjóðræknisfélag Íslendinga á Íslandi átti frumkvæðið að þessum heimboðum, en þar eru helztu framámenn þeir Sigurður Sigurgeirsson bankaritari, sem árum saman hefir verið formaður félagsins, og dr. Finnbogi Guðmundsson. Eigum vér þessu félagi langa og ágæta samvinnu að þakka og margvíslega vinsemd.

Þá sótti fyrrverandi varaforseti Þjóðræknisfélagsins, dr. Tryggvi J. Oleson, ættjörðina heim í boði Háskóla Íslands, þar sem hann flutti erindi.

Annar ritstjóri **Tímarits** vors og heiðursfélagi Þjóðræknisfélagsins, Gísli skáld Jónsson, dvaldi einnig sumarlangt heima á ættjörðinni, og bjó undir prentun mikið safn ritgerða sinna, sem nú er nýlega komið út á vegum Árna Bjarnarsonar á Akureyri. Er þar um merkisrit að ræða, sem vonandi kemur bráðlega á bókamarkaðinn hér vestra, svo að íslenzkum lesendum hér í landi verði greiðar um vik að eignast það.

Sannleikurinn er sá, þótt aðeins örfárra hafi sérstaklega verið getið, að óhætt mun mega fullyrða, að aldrei hafi eins margir Íslendingar vestan um haf vitjað ættjarðarstranda og á síðastliðnu sumri, síðan þeir fjölmenntu á Alþingishátíðina sögufrægu 1930, né heldur eins margir heiman um haf komið hingað vestur. Hefi ég þá vitanlega um annað fram í huga hópferðina héðan til Íslands í júní, og hópferðina frá Íslandi hingað vestur síðar á sumrinu, en með henni var brotið blað í slíkum samskiptum vorum yfir hafið. Ekki þarf ég að fjölyrða um það, hve kærkomnir gestir þessir heimsækjendur voru báðum aðilum. Vér Íslendingar hérlendis fögnuðum sérstaklega komu hins stóra gestahóps frá Íslandi, og eins og sjálfsagt var, efndi Þjóðræknisfélagið til mannfagnaðar í heiðursskyni við þessa kærkomnu gesti, er var bæði vel sóttur, og þótti um allt hinn prýðilegasti. Harma ég það, að vegna fjarveru minnar gat ég eigi tekið þátt í þessu virðulega og skemmtilega hófi, en vil nú þakka samnefndarmönnum mínum í stjórnarnefnd félagsins fyrir mikið og gott starf þeirra í sambandi við þetta vinsæla samkomuhald. Hins vegar er það nokkur bót í máli, hvað mig snertir, að við hjónin áttum þess kost að vera viðstödd á mjög fjölmennri og framúrskarandi ánægjulegri samkomu, er sambandsfélag vort í Seattle hélt til heiðurs gestunum frá Íslandi, og gafst mér þar tækifæri til þess að ávarpa gestina og félagsfólk vort vestur þar í nafni Þjóðræknisfélagsins.

Um það, hve mikilvægar slíkar gagnkvæmar heimsóknir eru fyrir framhaldandi ættartengsl og menningarleg samskipti milli vor Íslendinga beggja megin hafsins, er óþarft að fjölyrða, en að sama skapi ber að meta að verðleikum allt það sem treystir bræðraböndin og eykur góð kynni yfir hafið.

Með það í huga, söknum vér hér á þinginu í ár séra Hjalta Guðmundssonar og frúar hans, en hann skemmti oss oft ágætlega með söng sínum, og lagði með öðrum hætti sinn skerf til félagsmála

vorra. Hurfu þau hjónin, eins og kunnugt er, heim til Íslands síðastliðið sumar. Fylgja þeim heilhuga óskir vorar. Samtímis bjóðum vér innilega vel komin í hóp vorn vestan hafs, og hingað á þingið, séra Kristján Róbertsson og frú hans, sem nýlega komu hingað til lands, en hann þjónar nú Argyle-prestakalli. Verður hann aðal-ræðumaður á „Fróns"-mótinu í kvöld, og megum vér áreiðanlega eiga þar von á snjallri ræðu. Nýkomin eru einnig heiman um haf til dvalar hér vestra Hjörtur Pálsson cand. phil. og kona hans, frú Steinunn Bjarmann cand. phil. Er hann bókavörður við íslenzka bókasafnið á Manitoba-háskóla. Fögnum vér komu þeirra, og hyggjum gott til að kynnnast þeim og njóta starfskrafta þeirra.

Í sumar, er leið, voru fimmtán ár síðan fyrsta hópferð var farin á vegum Loftleiða frá Winnipeg til Reykjavíkur, og skipulagði féhirðir félags vors, Grettir L. Johannson ræðismaður, hana. Síðastliðið sumar voru einnig tíu ár liðin frá því að Loftleiðir hófu reglubundnar flugferðir milli Vesturálfu og Íslands, sem Íslendingar beggja megin hafsins hafa ríkulega fært sér í nyt. Minnug þessara tveggja merkisafmæla, og í viðurkenningar skyni fyrir þann mikla skerf, sem Loftleiðir hafa með beinum flugferðum sínum milli Íslands og Vesturheims, lagt til eflingar tengslanna milli Íslendinga heima og hérlendis, ákvað stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins að bjóða Loftleiðum að eiga fulltrúa hér á þjóðræknisþinginu, sem jafnframt væri gestur félagsins. Var það boð þegið, og Sigurður Magnússon, sem upplýsingastarfsemi hefir með höndum fyrir Loftleiðir, valinn til þess að vera fulltrúi þeirra og þá um leið sérstakur gestur vor. Bjóðum vér hann hjartanlega velkominn í vorn hóp. Hann er ræðumaður góður, prýðilega ritfær, vinsæll maður og vel metinn, og því ágætur fulltrúi félags síns og heimaþjóðarinnar. Flytur hann kveðjur hér á þinginu eftir hádegi í dag, ennfremur erindi á samkomu félagsins seinasta þingkvöldið. En alltaf setur það íslenzkan svip á þing vort, og meiri hátíðarbrag, er vér eigum að fagna slíkum gestum sem honum beint heiman af ættjörðinni; þeir flytja hana og heimaþjóðina nær oss og oss nær þeim.

Þinn svipurinn ljúfi, þitt líf og þitt mál,
í lögum þeim hljóma, er kveður mín sál,

segir Stephan G. Stephansson í „Ástavísum til Íslands", og minnir þar fagurlega á náin tengsl manns og móðurmoldarinnar. Sú meðvitund er einnig sterk í hugum vorum, og þessvegna hitar það oss um hjartarætur, þegar einhver úr vorum hópi sýnir í verki óvenjulega rækt til ættjarðarinnar. Það gerði hinn ágæti félagsbróðir vor, Páll Guðmundsson í Leslie, Saskatchewan, er hann í sumar gaf til Rafnseyrar málverk af Jóni Sigurðssyni, sem sjálfur forseti Íslands og heiðursverndari félags vors, herra Ásgeir Ásgeirsson, afhenti við virðulega athöfn. En Páll hefir áður gefið stórgjafir til Íslands. Heiður sé honum og hans höfðinglegu ræktarsemi! Þá hefir vafalaust mörgum fleirum en mér hitnað um huga, er þeir lásu nýlega í vikublaði voru tilkynningu frá herra biskupinum yfir Íslandi, dr. Sigurbirni Einarssyni, þess efnis, að Ekknasjóði Íslands hefði borizt eitt þúsund dollara gjöf frá Íslending búsettum í Kanada, er eigi vildi láta nafns síns getið, en þessi höfðinglega gjöf var gefin til minningar um látna eiginkonu gefandands. Ekki veit ég neitt um það, hvort þessi maður er í Þjóðræknisfélaginu, enda skiptir það engu máli í þessu sambandi. En sá rausnarhugur og mannúðar, sem þar kemur fram, er í ætt við það bezta í Íslendingseðlinu, og í anda þeirrar ræktarsemi við hugsjónina- og ættarerfðir vorar, sem er og hefir verið vígður þáttur í stefnuskrá og starfi þessa félagsskapar.

Vil ég svo ljúka þeim hluta skýrslu minnar, sem fjallar um samskiptin við Ísland á liðnu ári, með því að vitna til bréfs, sem mér barst alveg nýverið frá séra Jóni Guðnasyni, fyrrv. skjalaverði í Reykjavík. Eftir að hafa flutt mér og mínum hugheila blessunarósk og kveðju, fórust honum þannig orð:

„Og sömu ósk ber ég í brjósti um alla landa vestra. Ég get aldrei slitið mig frá þeim — og reyni að vísu ekkert til þess. Þrátt fyrir fjarlægðir í rúmi erum við heima og þið vestra „dropar tveir, en sami sjór" í þjóðahafinu. Mun jafnvel svo verða enn langa framtíð, hvort sem þess gætir á ytra borðinu eða ekki".

Þetta er vel mælt og viturlega, en séra Jón hefir áður sýnt í verki í merkum ættfræðiritum sínum djúpstæðan áhuga sinn á framhaldandi ættar- og menningartengslum milli Íslendinga austan hafs og vestan; meðal annars átti hann mikilvægan þátt í undirbúningi hins mikla og merka rits: **Vestur-íslenzkar æviskrár.** Vil ég jafnframt minna á beiðni séra Benjamíns Kristjánssonar, er út kom nýlega í **Lögbergi-Heimskringlu,** varðandi annað bindi ritsins, sem hann hefir nú í undirbúningi, og hvetja fólk vort eindregið til þess að bregðast sem bezt við þeirri málaleitun hans. Slík samvinna er það minnsta sem vér getum lagt til fram-

halds útgáfu þessa gagnmerka rits, sem bæði á sér mikið og varanlegt ættfræðilegt og menningarsögulegt gildi, og er um leið sterk stoð undir brú ætternis og erfða yfir hafið.

**Gömlu máli ráðið til lykta**

Eins og mörgum af ykkur mun reka minni til, samþykkti þjóðræknisþingið 1957 tillögu frá þáverandi stjórnarnefnd félagsins þess efnis, að væntanlegri stjórnarnefnd væri heimilað að afhenda The Mariners' Museum í Newport News, Virginia, í Bandaríkjunum, Leifs Eiríkssonar styttuna, sem nú hefir verið geymd þar í meir en 20 ár. En stytta þessi er eirsteypa af hinni miklu styttu Leifs, sem Bandaríkin sæmdu Ísland að gjöf Alþingishátíðarárið 1930. Gekkst Þjóðræknisfélagið á sínum tíma fyrir því, að fjársöfnun fór fram meðal Íslendinga vestan hafs til þess að greiða kostnaðinn við að láta gera umrædda eirsteypu, og stóð hún upprunalega fyrir framan skála Íslands á Heimssýningunni í New York borg 1939.

Af ýmsum ástæðum hefir orðið dráttur á því, að styttan væri afhent safninu, en í sumar vakti forseti máls á því á stjórnarnefndarfundi, að tími væri kominn til þess að ráða þessu máli til lykta í samræmi við fyrrgreinda samþykkt þjóðræknisþings, en endurtekin var á þinginu 1961. Fól stjórnin þeim forseta og féhirði félagsins, Gretti L. Johannson ræðismanni, að annast um afgreiðslu málsins. Eftir að hafa ráðfært okkur við heiðursfélaga og velunnara félags vors, Ambassador Thor Thors í Washington, og notið góðra bendinga hans, og einnig haft samband við annan heiðursfélaga vorn og hollvin, Guðmund Grímsson, fyrrum dómstjóra hæstaréttar, í Bismarck, N.Dakota, sem frá byrjun hefir verið í nefnd þeirri, er fjallaði um þetta mál, tilkynntum við, í umboði stjórnarnefndar og nafni félagsins, með bréfi til forstjóra The Mariners' Museum, Rear Admiral George J. Dufek, USN (Ret.), dags. 28. janúar s.l., að Leifsstyttan væri þar með formlega afhent safninu til varðveizlu um óákveðinn tíma. Var sending umrædds bréfs áður samþykkt með einróma atkvæðum stjórnarnefndarinnar. Teljum vér, að málinu sé með þessari ráðstöfun farsællega til lykta ráðið, því að á þessu mikla og fjölskrúðuga safni, sem helgað er sæfarendum og sjóferðum að fornu og nýju, á stytta Leifs Eiríkssonar ágætlega heima. Stendur hún á mjög áberandi stað við safnið og þar skoða hana tugþúsundir manna árlega. En á málmskildi framan á styttunni er skýru letri skráð, að hún sé af Íslendingnum Leifi Eiríkssyni, er fyrstur Norðurálfumanna steig á strönd Norður-Ameríku. Er styttan því hin ágætasta lands- og þjóðarkynning fyrir oss Íslendinga.

**Útgáfumál**

**Tímarit** félagsins kemur í ár, eins og nokkur síðustu árin, út undir sameiglegri ritstjórn þeirra Gísla skálds Jónssonar og Haraldar prófessors Bessasonar. Þökkum vér þeim prýðilegt starf þeirra. Vegna hækkandi prentunarkostnaðar, og af öðrum ástæðum, gerist útgáfa ritsins stöðugt meiri erfiðleikum háð fjárhagslega. Hefir stjórnarnefndin rætt það mál, og sérstök nefnd af hennar hálfu, skipuð þeim Guðmanni Levy fjármálaritara, Gretti L. Johannson féhirði og Haraldi Bessasyni ritara félagsins, mun koma fram með tillögu um útgáfu ritsins. En margoft hefi ég og aðrir lagt áherzlu á það, hve mikilvægur þáttur og varanlegur útgáfa **Tímaritsins** er í starfsemi félagsins.

Eins og að undanförnu hefir Þjóðræknisfélagið aftur á liðnu ári stutt útgáfu hins íslenzka vikublaðs vors með $500.00 fjárframlagi, og munu allir sammála um, að það sé hin ágætasta þjóðrækni. Eins og þið vitið öll, átti **Lögberg** nýlega 75 ára afmæli. Vil ég nú úr forsetastóli endurtaka þakkir þær og kveðjur, sem ég af félags vors hálfu, birti í afmælisblaðinu, sem út var gefið af fyrrnefndu tilefni, en þær veit ég bergmála hug þingheims og félagsfólks vors.

**Skýrslu embættismanna, nefnda og deilda**

Skýrslum féhirðis, fjármálaritara og skjalavarðar verður venju samkvæmt útbýtt á þinginu. Ennfremur verða lagðar fram skýrslur milliþinganefnda í **skógræktar-** og **minjasöfnunarmálinu.** Nefndina í hinu fyrrnefnda máli skipa frú Mrja Björnsson, Ólafur Hallson varafjármálaritari og Jakob F. Kristjánsson skjalavörður, en í hinni síðartöldu nefnd eiga sæti Jakob Kristjánsson, frú Hólmfríður Danielson varaféhirðir, og frú Kristín Johnson. Samkvæmt fyrirmælum, síðasta þjóðræknisþings, tók stjórnarnefndin til ítarlegrar athugunar, hvort unnt væri að láta gera og koma fyrir í þinghúsi Manitobafylkis minnismerki um íslenzka landnámsmenn í fylkinu og fyrsta leiðtoga þeirra Sigtrygg Jónasson. Sérstök nefnd fjallaði um þetta mál af hálfu stjórnarnefndar, en í henni voru: Walter J. Lindal, Grettir L. Johannson og frú Hólmfríður Danielson. Komst nefndin að þeirri niðurstöðu, að heppilegast væri, undir núverandi kringumstæðum, að fresta

framkvæmdum í málinu. Samþykkti stjórnarnefndin þá tillögu nefndarinnar. Eins og vanalegt er, verða skýrslur deilda einnig fluttar hér á þinginu, og vil ég fyrirfram í nafni félagsins, þakka öllum þeim, sem á þeim vettvangi hafa lagt hönd á plóg til viðhalds og eflingu þjóðræknismálanna á liðnu starfsári.

**Niðurlagsorð**

Dregur nú að lokum þessa máls, en áður en ég lýk máli mínu, vil ég leyfa mér að tilkynna þingheimi að ég sé mér eigi, af mörgum ástæðum fært að taka aftur kjöri í forsetaembættið, þó að þess kynni að verða óskað, enda hefi ég nú skipað forsetasessinn í samfleytt sex ár. Með tilliti til þeirrar ákvörðunar minnar, gríp ég tækifærið til þess að þakka hjartanlega þann sóma og þá tiltrú, sem þið í Þjóðræknisfélaginu hafið sýnt mér með því að kjósa mig í virðulegan og ábyrgðarmikinn forsetasessinn hvað eftir annað. Sérstaklega vil ég jafnframt þakka stjórnarnefndinni framúrskarandi samvinnu á forsetaárum mínum. Um hitt er óþarft fyrir mig að fara mörgum orðum, að ég mun halda áfram að vinna Þjóðræknisfélaginu og öðrum félags- og menningarmálum vorum allt það gagn, sem ég má, og eins lengi og við hjónin eigum þess kost, þótt um langan veg kunni að verða að sækja, munum við sitja þjóðræknisþingin hér í borg.

Þjóðræknisfélagið á sér langa og merka sögu að baki, og er fyrir löngu búið að margréttlæta tilveru sína. Það hefir frá fyrstu tíð átt mikilvægu hlutverki að gegna í félagsmálum og menningarlífi vor Íslendinga vestan hafs, og að öllu athuguðu, mun mega segja, að það eigi nú enn meira hlutverki að gegna, eins og háttað er félagsmálum vorum. Óneitanlega liggur þungur straumur oss í fang í þjóðræknismálum vorum, en eigi getum vér verra gert í þeim efnum eða öðrum, heldur en að láta hugfallast og ganga uppgjafarstefnu á hönd, því að það er greiðasti vegurinn til þess að sjá hallir sínar hrynja til grunna og drauma sína verða að ösku.

Hitt er mannsæmra, að skipa sér fastar um göfugt merki félags vors, að sameina krafta vora í anda spaklegra orða Jónasar Hallgrímssonar um mátt samvinnunnar:

Sterkur fór um veg,
þá var steini þungum
lokuð leið fyrir.
Ráð at hann kunni,
þó ríkur sé
og hefðu þrír um þokað.

Enn er hér ofan moldar í Vesturheimi stór hópur Íslendinga, innan og utan félags vors, sem ann íslenzkum erfðum. Ykkur hér samankomin, sem orð mín heyrið, og aðra, sem kunna að lesa þau, og annt er um varðveizlu og ávöxtun menningarerfða vorra, kveð ég til dáða í orðum Davíðs skálds Stefánssonar:

Gakk þú heill að hollu verki,
heimta allt af sjálfum þér.
Vaxa skal sá viljasterki,
visna hinn, sem hlífir sér.

Já, skáldið hefir laukrétt að mæla, menn vaxa af því andlega, og að manndómi, að unna og vinna göfugum málstað. Svo býð ég yður velkomin á 44. ársþing félags vors, til þess að njóta ánægjunnar, sem fylgir því að koma saman sem Íslendingar, og til þess að vinna að viðhaldi og framgangi hjartfólginna áhugamála vorra.

---

Samkvæmt sérstakri samþykkt útgáfunefndar Tímaritsins verður aðeins birtur örstuttur útdráttur fundargerninga þjóðræknisþings. Hins vegar verða þeir í heild sinni sérprenaðir eða fjölritaðir.

Fulltrúar hinna ýmsu deilda á þinginu voru: Frá „Fróni" í Winnipeg: Haraldur Bessason, Oddný Ásgeirsson, Kristín Jonhson, Hrund Skúlason, Guðmann Levy, Jakob F. Kristjánsson, Soffía Benjamínsson, Gunnar Baldwinsson og Jón Hafliðason; Frá deildinni „Gimli", Jónas Jónasson, J. B. Johnson, Sigurbjörg Stefánson og Margrét Sigurdson. Frá „Ströndinni" í Vancouver og „Öldunni" í Blaine, Marja Björnson; Frá „Esjunni" í Árborg: Guðrún Magnússon, Inga Hólm, Björgvin Hólm, Gestur Pálsson, Herdís Eiríksson og Guðrún Jónasson; Deildin „Ísland" í Morden, Man.: Jón B. Johnson; Deildin „Lundar": Gísli S. Gíslason og J. B. Howardson; Deildin „Brúin" í Selkirk: Sigrún Nordal, Guðrún Vigfússon.

Fjölmargir aðrir voru mættir á þingi.

Í dagskrárnefnd þingsins voru skipuð: Dr. Valdimar J. Eylands, J. B. Johnson og Herdís Eiríksson. Formaður nefndar, dr. Eylands flutti þegar skýrslu nefndarinnar, sem var í meginatriðum svipuð skýrslum frá fyrri árum.

Í kjörbréfanefnd voru skipuð: Guðmann Levy, Kristín Johnson og Guðrún Jónasson.

Fjölmargar kveðjur voru fluttar þingheimi, sumar af segulbandi, aðrar voru lesnar upp af forseta. Kveðjur bárust frá: Sigurði Sigurgeirssyni forseta Þjóðræknisfélagsins á Íslandi, dr. theol. Ás-

mundi Guðmundssyni, Guðmnudi Í. Guðmundssyni utanríkisráðherra Íslands, Thor Thors ambassador, Ármanni Snævarr háskólarektor, Guðmundi Grímssyni fyrrv. háyfirdómara, Valdimar Björnson fjármálaháðherra Minnesota, Sigurði Þórðarsyni söngstjóra og þeim Ásgrími M. Ásgrímssyni og Guðmundi Jónassyni, sem eru félagar í þjóðræknisdeildinni að Mountain í N.Dak.

Mættur var á þingfundi sérstakur gestur þjóðræknisþings, Sigurður Magnússon fulltrúi Loftleiða á Íslandi, ávarpaði hann þingheim og flutti kveðjur frá forseta Íslands, Ásgeiri Ásgeirssyni og biskupi íslenzku þjóðkirkjunnar, dr. Sigurbirni Einarssyni.

Fyrsta og annan dag fluttu fulltrúar ársskýrslur allra deilda. Báru þær skýrslur yfirleitt vott um blómlegt starf.

Annan dag þings skipaði forseti þingnefndir sem hér segir: Útbreiðslu- og fræðslumálanefnd: Hólmfríður Danielson, Sigurbjörg Stefánson, Hrund Skúlason, Guðrún Vigfússon og Gestur Pálsson; Fjármálanefnd: Jakob Kristjánsson, John B. Johnson (Gimli) og Gísli S. Gíslason; Allsherjarnefnd: Philip M. Pétursson, W. J. Lindal, J. B. Johnson (Morden); Samvinnumálanefnd: Grettir L. Johannson, Marja Björnson, Herdís Eiríksson, Jónas Jónsson og Sigrún Nordal; Útgáfumálanefnd: Guðmann Levy, Björgvin Hólm, Gunnar Baldwinson.

Álit ofangreindra nefnda voru flutt á þriðja degi þings og öll samþykkt.

Skýrsla féhirðis, Grettis L. Johannson, sýndi að inneign Þjóðræknisfélagsins er $6.065.54, en í fyrningarsjóði er $3,254.36.

Frú Ingibjörg Jónsson talaði á þinginu um tillögu Jónasar Jónssonar frá Hriflu um útgáfu á greinum varðandi Vestur-Íslendinga og hækkun á námsstyrkjum Kanadastjórnar til Íslands.

Í upphafi þings lýsti forseti Þjóðræknisfélagsins, dr. Richard Beck, því yfir að hann sæi sér ekki fært að taka endurkjöri. Þingheimur varð við óskum forseta og var honum þakkað frábært starf í þágu Þjóðrækisfélagsins, áttu þær þakkir ekki einungis við sjö undanfarandi ár í forsetaembætti, heldur hafði þingheimur í huga störf dr. Beck, sem hann hefir unnið hér vestra síðan hann fyrst steig hér fæti á land.

Á síðasta þingdegi fór fram stjórnarkjör, og voru úrslit sem hér segir: Forseti, Philip M. Pétursson; Varaforseti, Haraldur Bessason; Ritari, Hólmfríður Danielson; Vararitari Walter J. Lindal; Féhirðir, Grettir L. Johannson; Varaféhirðir, Jóhann Beck; Fjármálaritari, Guðmann Levy; Varafjármálaritari, Ólafur Hallson. Skjalavörður, Jakob F. Kristjánsson. Endurskoðendur voru kjörnir þeir Davíð Björnson og Gunnar Baldwinson.

Heiðursfélagar Þjóðræknisfélagsins voru kjörnir þeir dr. H. H. Saunderson forseti Manitobaháskóla, Sigurður Sigurgeirsson forseti Þjóðræknisfélagsins á Íslandi og Ólafur Hallson. Sérstakt heiðurskjal til Loftleiða var og afhent Sigurði Magnússyni, áður en hann flutti aðalræðu sína á lokasamkomu þingsins miðvikudagskvöldið þann 20. febr. 1963.

**Richard Beck**
forseti
**Haraldur Bessason**
ritari

# Auglýsingaskrá Tímaritsins

(Index to Advertisers)

Page

A

Academy Road Service 33
Acme Auto Service 33
Aldo's Bakery 22
Anderson, Arthur 19
Arborg Farmer's Co-Op 33
Arborg Drugs 5
Arlington Pharmacy 14
Arnason Engineering 24
Asgeirson Paints 14

B

Bailey, Allan 30
Bank of Montreal 3
Bank of Nova Scotia 29
Bardal, A. S. Ltd. 9
Black & Admstrong Ltd. 33
Booth Fisheries 16
British American Oil 25
Brooke Bond Canada Ltd. 25
Buckinghahm Cigarettes 12
Building Mechanics Ltd. 22
Burdett, Stan 32

C

Canadian Fish Producers, Ltd. 11
Canadian Rubber Stamps, Ltd. 16
Chieftain Hardware Stores 16
Chudd & Sons Garage 24
City Hydro 4
Clemens Funeral Service 33
Coghill's Food Market 32
Coronet Printers 21
Crescent Creamery 15
Crescent Motor Service 5
Curry, Peter D. & Co. 22

D

Dalman, H. — Shell Oil 28
Dangerfield Hotels 4
Darin's Furniture and Appliances 8

E

Easton, Dr. W. I. 26
Eaton's of Canada Back Cover
Eggertson, Bjorn 23

Page

Einarson Realty 30
Ellice & Beverley Service 19
Electrician, The 19
Empire Sash & Door Co. Ltd. 31

F

Federal Grain Ltd. 6
Fonseca Roofing 8
Fort Garry Hotel 34
Fred's Service 28
Friend, From A 22
Friends, From Two 21
Frón, Heillaóskir 20
Furnasman, Ltd. 21

G

G. & E. Cash Store 22
Gilbart, J. Roy 15
Gimli Cafe 28
Gimli Construction 30
Gimli Hotel 24
Gimli I.G.A. 28
Gimli Tailors 24
Gimli Transfer 24
Gimli Þjóðræknisdeildin 30
Golko's Hardware 24
Goodall Photo Co. 20
Goodbrandson's Service 21
Great-West Life 34
Guttormson, P. T. 14

H

Hallson, H. O. 23
Hillhouse, Thos. B. 26
Hooker's Lumber Yard 22
Hudsons Bay Company 1

I

Independent Fish Co. Ltd. 20
Ingimundson, Dr. A. B. 24
Investors Syndicate 9
Interlake Insurance 28

J

J. B. Johannson & Son 32
Jonhson, S. E. Ltd. 14
Johnson, Dr. J. G. L. 24
Johnson Radio & TV 32
Johnson's Store 26
Johann's Beauty Salon 30

Page

K

Keystone Fisheries, Ltd. 8
Kim, M. Furs 13

L

Lake Inn Restaurant 28
Lakeland Dairies, Limited 31
Lipton Pharmacy 14
Lundar Bakery 33
Lundar Garage 33
Lundar Transfer 16
Lundar Drugs 23
Lundar þjóðræknisdeild 23

M

Macdonald Shoe Store, Ltd. 4
MacLeod Authorized Dealer 33
Manitoba Dairy & Poultry 34
Manitoba Pool Elevators Front Cover
Manitoba Hydro 6
Manitoba Rolling Mills 6
Maple Leaf Creamery 8
Massey-Ferguson, Ltd. 12
McCaughey, Neil R. 22
McCurdf Supply Co. Ltd. 8
McDonald-Dure Lumber Co. 31
McLean, G. Co., Ltd. 16
Modern Dairies 20
Morrison, J. W. & Co. 26
Mundy's Barber Shop 26
Mulvihill Trading Co. 20

N

National Grain Co. Ltd. Inside Top Back Cover
Nell's Flowers Shop 14
North American Publishing Co. 11
North Star Co-Op Creamery 28
North American Lumber 28

O

Oakland Hatcheries Ltd. 12
Oakley, D. R. 24
Orchid Florist, The 31

P

Paddock, The 12
Park-Hannesson, Ltd. 12
Parker, Tallin, Kristjanson & Co. 20
Paulson, Dr. G. 26
Perths Cleaners 32

Page

Q

Quinton's Ltd. 5

R

Rozecki, Dr. W. A. 28
Riverton Garage 31
Robinson's Stores 26
Roberts & White 26
Royal Bank of Canada 10
Royal Daries 22
Rudd's Tom-Boy Store 28

S

Salisbury House Restaurants 21
Selkirk Navigation Co. 15
Scribner, Drs. F. E. & C. R. 30
Sigurdsson, Halldor & Son, Ltd. 20
Sigurdsson, Dr. L. A. 22
Sigurdson, S. A. & Son 31
Sigurdson Fisheries, Ltd. 32
Sigurdson's Limited 31
Stefanson, Eric 24
Swedish Canadian Sales 22

T

Takas, Julius 30
Tergesen, H. R. 30
Thorarinson, Kris 32
Thorarinson, S. A. 14
Thorgeirson, Magnús 14
Thor's Gift Shop 26
Thorvaldson, Eggertson & Co. 16
Tip Top Meats 28
Tweed, Dr. H. W. 19

U

Union Loan Shoppe 26
Union Insurance Agencies 31

V

Variety Shoppe 26
Vopni, R. B. & Co. 30
Vick Chemical Inc. 20

W

Western Elevator & Motor Co. Ltd. Inside Back Cover
Western Paint Co. Ltd. 21
Western Saving & Loan Association Front Cover
White's Esso Service Station 14
Winnipeg Supply & Fuel 14

Kristín Sveinsson
Margrét Sigurðsson
Fred Thordarson
Emma Thorvaldsson
Soffanías Thorkelsson
Halldóra Thorsteinsson
Thor Thorsteinson
Örn Thorsteinsson
Valgerður Thorsteinsson
Th. Thorsteinsson
Mrs. A. Thorgrímsson
Heimir Thorgrímsson
Laufey Thorgrímsson
Margrét Thorbergsson
Valdheiður Thorláksson
Ljotunn Joung
Axel Vopnfjörð

**„Vestri" Seattle, Wash.**

Mr. Ólafur Bjarnason
Mrs. Ólafur Bjarnason
Mr. S. Margeirsson
Mrs. S. Margeirsson
Mr. Ted Samúelson
Mrs. Ted Samuelson
Mr. Jón Th. Johnson
Mr. Stefán Hauksson
Mr. Thor Viking
Mrs. Thor Viking
Mr. Fred Nelson
Mr. Snorri Hauksson
Mr. Byron Samúelson
Mrs. Byron Samúelson
Mr. J. J. Miðdal
Mrs. J. J. Miðdal
Mr. Jón Magnússon
Mrs. Jón Magnússon
Mr. Steve B. Johnson
Mrs. Steve B. Johnson
Mr. B. O. Johannson
Mrs. B. O. Johannson
Mrs. Ruth Sigurdson
Mrs. Anna Hanley
Mrs. S. S. Thordarson
Mrs. Emma Scheving
Mr. Pálmi Pálmason
Mrs. Pálmi Pálmason
Mr. Bjarni Jónsson
Mrs. Bjarni Jónsson
Miss Dóra Grimson
Mr. Kristinn Thorsteinson

**Deildin „Aldan" Blaine, Wash.**

Elísabeth Arngrímson
Sigurjón Björnsson
Ágúst G. Breiðfjörð
Rósa Carper
Elín Guðbrandson
Guðmundur Guðmundson
Gísli Guðjónsson
Hólmfríður Guðjónsson
Sólveig Jóhannsson
Rev. Guðm. P. Johnson
Margrét Johnson
Rúna Johnson
Thorbjörg Johnson
Helga Guðmundson
Dr. Sveinn E. Björnson
Marja Björnson
Bertha Björnson
Gísli Benedictson
Thorbjörg Ruby Couch
Séra A. V. E. Kristjánsson
Anna Kristjánsson
Jón Laxdal
Kristín Líndal
Margrét Sigmar
Einar Símonarson
Begga Solvason
Kristín Steinberg
Herdís Stephanson
Jóhann J. Straumfjörð
Bella Straumfjörð
Solveig Sveinsson
Dagbjört Vopnfjörð

**Deildin „Brúin" í Selkirk**

Embættismenn:
Forseti
Th. Skagfjord
Vara-forseti
Gestur Johannson
Skrifari
Sigrún Nordal
Féhirðir
Alli Goodbrandson
Vara-féhirðir
Ola Magnússon
Bókavörður
Friðrik Nordal
Meðlimir:
Birgitta Björnsson
Asta Erickson
Margaret Goodman
Kristinn Goodman
Johanna Goodman
Guðrún Isfeld
Þórun Johannson

Vigdis Johnson
Dr. Oli Johnson
Christie Johnson
Freida Lyons
Einar Magnússon
Rúna Magnússon
Jofeta Skagfjord
Einar Thorvaldson
W. P. Thorsteinson
Pete Thorsteinson

**Deildin „Gimli"**
**Gimli, Man.**

Meðlimaskrá:

Guðjón W. Árnason
Mrs. G. M. Árnason
Ted K. Árnason
Miss Sæunn Bjarnason
Helgi Benediktsson
Harold Bjarnason
Mrs. Harold Bjarnason
Óli Bjarnason
G. B. Bjarnason
Sveinn Björnsson
Mrs. Helga Demedash
Pálmi F. Einarsson
Barney Egilson
Mrs. Barney Egilson
Harry Einarsson
Mrs. Harry Einarsson
Einar S. Einarsson
Mrs. Einar S. Einarsson
Ingi Einarsson
Mrs. Ingi Einarsson
August Elíasson
Mrs. August Elíasson
S. E. Eyólfsson
Mrs. S. E. Eyólfsson
Mrs. G. Eyólfsson
Mrs. Sigrún Gíslason
Kjartan Geirholm
Mrs. Kjartan Geirholm
Adolf Holm
Mrs. Adolf Holm
Miss M. Halldórsson
Miss S. Hjartarson
Dr. A. B. Ingimundson
Mrs. Guðný Ísfeld
J. V. Johnson
Mrs. John J. Johnson
Mrs. J. B. Johnson
Mrs. Pálmi Jóhannson
Óli P. Josephson
Mrs. Óli P. Josephson
Dr. Jónas G. Johnson
Mrs. Elín Kristjánsson
Mrs. O. N. Kardal
Ted Kristjánsson
Kristjáns N. Kárason
Lestrarfélagið „Gimli"
F. O. Lyngdal
G. E. Narfason
Mrs. G. E. Narfason
Frank Olson
Mrs. Baldur Peterson
Guðmundur Peterson
Dóri Peterson
Mrs. Dóri Peterson
Mrs. Lauga Peterson
Mrs. Emma Von Renesse
Miss Sigurbjörg Stefánsson
Mrs. Margrét Sigurdsson
Björn Sigurdsson
Sam Sigurdsson
Mrs. Elín Sigurdsson
Miss Guðrún Sigurdsson

Mrs. Ingibjörg Sveinsson
S. Th. Sveinson
Helgi Stevens
Mrs. Norman K. Stevens
Mrs. L. Stevens
Valdimar Stefánsson
Mrs. Valdimar Stefánsson
Eric Stefánsson, M.P.
Mrs. Eric Stefánsson
Mrs. F. E. Scribner
Óli Thorsteinsson
Mrs. Óli Thorsteinsson
Mrs. Guðrún Thompson
Mrs. Lára Tergesen
Mrs. H. R. Tergesen
Miss J. V. Thordarson
Björgvin Thordarson
Miss Sylvia May Kardal

**Ströndin — Vancouver**

Siggi Anderson
Mrs. S. Anderson
Ingi Anderson
Mrs. I. Anderson
Margret Anderson
Oli Anderson
Mrs. O. Anderson
James Amdal
Helga Amdal
Elias Arnason
Frú Olga Árnason
Mrs. R. L. Arneson
Margaret Arngrimson
Harold W. Baird
Vigfus Baldwinson
Clara Baird
Mrs. S. Baldwinson
Gisli Benedictson
Runa Benedictson
Thorsteinn Bergmann
Noi Bergmann
B. Bergvinsson
Mrs. Gulla Bergvinsson
G. Bergvinson
D. G. Barber
Mrs. D. G. Barber
Jonatan Bjornsson
Mrs. J. Bjornsson
B. Bjornson
Mrs. L. Bjornson
Mrs. B. Bjornson
Dr. Sveinn E. Bjornsson
Marja Bjornsson
Mrs. A. Bjornson
Wilhelm Bjornson
Bert J. Bjornson
Mrs. E. S. Brynjolfsson
B. Brynjolfsson
Mrs. S. Brynjolfsson
Mrs. B. Brynjolfsson
Mrs. Emily Burt
William Burnette
Jennie G. Burns
Dora Cheever
Margaret Christianson
Mr. Cross
Inga Cross
Carry Christopherson
Mrs. Maria Cray
Miss N. G. Dall
W. R. Darling
Thora B. Darling
Finna Drewry
Harold G. Eastvold
Eyrika Eastvold
David Eggertson
Mrs. D. Eggertson
Gudbjorg Eggertson
Inga Egilsson
Edna Einarson
Thorunn Einarsdottir
Rebecca Einarson
E. Eliasson
Mrs. G. Erickson
Frank Eyford
Mrs. F. Eyford
Herman Eyford
Mrs. H. Eyford
Haraldur Eyford
Mrs. H. Eyford
Chris Eyford
Mrs. C. Eyford
Stefan Eymundson
Mrs. S. Eymundson
Gudbjorg Eyrikson
Mrs. Ellen Fafnis
Geira Farris
Eggert Felsted
Mrs. E. Feldsted
Mrs. C. Finnbogason
Matthildur Frederickson
Miss Emily Freeman
Mrs. M. Fridrikson
Margret Fridrikson
G. Fridrikson
Mrs. G. Fridrikson
Dr. E. J. Fridleifson
Mrs. E. J. Fridleifson
S. V. Gillis
Elizabeth Goodman
G. G. Gislason
Mrs. G. G. Gislason
Mrs. Erna Graveline
S. Grimson
Mrs. S. Grimson
Edwin N. Grubbe
Gerri K. Grubbe
Bara Gudlaugson
Clara Gudmundson

Mrs. G. J. Gudmundson
J. Gudmundson
Miss Rosa Gudmundson
Miss Helga Gudmundson
Agust Gudmundson
V. Gudmundson
Agust Gudjonsson
Mrs. A. Gudjonsson
S. R. Gunnarsson
Asthildur Gunnarsson
Thor Gunnarsson
Disa Gunnarsson
Olgeir Gunnlaugson
Kristin Gunnlaugson
Oscar Gunnlaugson
Thorsteinn Hallgrimson
Mrs. S. Haralds
Mrs. E. F. Hall
Gudrun Hallson
Geir Jón Helgason
Mrs. G. J. Helgason
Gunnthor Henrikson
Mrs. G. J. Henrikson
Oscar Howardson
Mrs. O. Howardson
John Howardsson
Gunnlaugur J. Holm
Mrs. G. J. Holm
Mrs. Elsie Hyde
Ingthor Indridason
Mrs. I. Indridason
Marion W. Irwin
Herman Isfeld
Mrs. C. H. Isfjord
Bud Jacobson
G. Jacobson
Mrs. G. Jacobson
Thorir Jacobson
Victor Jakobson
Agla Jacobsen
Mrs. Gudl. Johannesson
Egill Johnson
Mrs. E. Johnson
H. B. Johnson
Margret Johnson
Miss Helga Johnson
J. S. Johnson
Jonas Johnson
Sigurdur Johnson
Mrs. Sig. Johnson
Mrs. O. W. Johnson
Bjorn S. Johnson
Mrs. B. S. Johnson
Miss Kristin Johnson
Th. Kjerulf Johnson
Albertina Johnson
Runolf Johnson
Pauline Johnson
M. Johnson
John J. Johnson
Olina Johnson
Bjarni Johnsson
Solveig Jónsson
Ölver Jónsson
Óli Jónsson
Snorri Kristjansson
Ragnar Kristjansson
Hakon Kristjansson
Mrs. H. Kristjansson
Mrs. Mary Kerr
Bjarni Kolbeins
Mrs. B. E. Kolbeins
Elma Larson
T. E. Laxdal
Jon Magnusson
Gudrun Magnusson
Kristin Magnuson
Gunnlaugur Magnusson
Violet Mary Magnusson
Mrs. Edith Martin
Walter Maxson
Colleen K. Mayovski
Mrs. Rósa Mórsson
Mrs. Freda McDonald
Mrs. Marie McIntosh
Kr. Olafson
Mrs. Maria Ólason
Sina Olason
Ray Olason
Mrs. R. Olason
Kristin Oliver
Mrs. Sigrun Olson
Mrs. S. I. N. Oddstad

Mrs. Emily Palsson
Mrs. Ragna Pedersen
Miss Ingrid Pedersen
Maria Penko
Mrs. Frida Philipson
Mrs. Sigridur Reykjalin
Kristin Rice
Dora Rosvick
Mrs. Anna Samson
Stefan Scheving
Mrs. Emma Scheving
Steve Scheving
Anna Scheving
Johann Sigmundson
Ásmundur Sigurbjörnsson
Johann Sigurdson
Bergþora Sigurdson
Bjorg Sigurdson
John F. Sigurdson
Mrs. J. F. Sigurdson
Keli Sigurdson
M. K. Sigurdsson
Agusta Sigurdsson
Sigurdur Sigurdson
Sigurbjorn Sigurdson
Mrs. S. Sigurdson
Elin Sigurdson
Harold Sigurdson
Norma Sigurdson
Mundi Sigurdson
Mrs. M. Sigurdson
Ruth Sigurdson
Jonina J. Skafel
Mrs. Mikka Smith
Loa Skulason
Mrs. Jennie Sophuson
Sigurdur Stefanson
Gunnbjorn Stefanson
Gudrun Stefanson
Oli Stefanson
Svava Stefanson
B. Sig. Sturlaugson
Kristbjorg Sturlaugson
Mrs. L. E. Lummers
J. Sumarlidason
Mrs. J. Sumarlidason
H. M. Sumarlidason
Mrs. H. M. Sumarlidason
Gudrun Sveinbjornson
Oscar Sveinson
Georeg L. Sveinsson
Mrs. G. L. Sveinsson
Thordur H. Teitsson
Mrs. T. Teitsson
Bjorn Thorlakson
Mrs. B. Thorlakson
Sigurdur Thorlakson
L. Halfdan Thorlakson
Mrs. L. H. Thorlakson
F. Thorsteinson
Mrs. F. Thorsteinson
Svavar Tryggvason
Sveinbjorg Tryggvason
S. S. Thordarson
Catherine Torlakson
Odin Thornton
Mrs. Emily Thorson
Laugi Thorstenson
Ella Thorstenson
Gudm. Thorsteinsson
Lilja Thorsteinson
Mrs. T. S. Thorsteinson
Birgir Valdimarson
Dr. Thos Wallace
Mrs. T. Wallace
Garth Wallace
Michel Wallace
Tove Walthers
Albert Wathne
Mrs. A. Wathne
Ella Wells
Anna Williams

**Deildin „Esjan", Árborg, Man.**

Þórarinn Gíslason, heiðursmeðlimur, 96 ára
Björgvin Hólm
Guðrún Jónasson
Eiríkur Bjarnason
S. S. Johnson
Brandur Finnson
Óli Gíslason
Halldór Austman
Jórdís Brandson
Herdís Eiríkson
Gestur Pálsson
Bjössi Goodman
Þorbjörg Sigurdson
Bjössi Jónasson
Þorgrímur Pálsson
Kristján Albertson
S. F. Sigvaldason
Kristján Th. Johnson
Jón K. B. Jónson
Emily Vigfússon
Guðrún Magnússon
Sigurður Vopnford
Bjarni Sigvaldason
Grímur J. Magnússon
Björn Bjarnason
Jóhann K. Jonhson
Óli Ólafson
Franklin Johnson
Stefán Guttormson
Laugi Johnson
Ragnar Karvelson
Sigurjón Karvelson
Lóa Guðmundson
Lára Daníelson
Kristín L. Skúlason
Valdi Jónasson
Valgerður Sigurdson
Þórdís Thompson
Kristjón Sigurdson
Sigurdur Sigurdson
Jón Thorsteinsson
Gunnar Simundson
Helgi Jacobson
Gestur Vidal
Edward Gíslason
Guðjón Danielson
Timi Böðvarsson
Margrét Lífman
Olga Anderson
Jacobína Friðfinnson
Guðni Sigvaldason
Aðalbjörg Sigvaldason
W. S. Eyjólfson
Kristinn Kristinnson (látinn)
Lára Sigvaldason
Eiríkur Einarson
Jón Pálsson
A. S. Johnson
Páll Stefánson
Pálína Hornfjorð
Sigurður Pálsson
Bergur Vigfússon
Rikka Magnússon
Beatrice Martin
Sigurður Sigvaldason
Sigríður Kristjánsson
Ragnar Guðmundson
Victor Jóhannesson
Elín Floyd
Andrés Fjeldsted
Axel Eyjólfson
Einar Johnson
S. H. Jóhannesson
Guðjón Björnsson
Elísabet Guðbjartson
Sigfús Hildibrandson
Helgi Helgason
Helgi Sigurðson
Jón Baldvinson
Jón Þórðarson
Valdimar Pálsson
Elli Guðmundson
Guðmundur Sigvaldason
Gunnlaugur K. Oddson
Þórður Anderson
Jónína Alexander
Guðríður Gíslason
Veiga Jóhannesson
María Boundy
Sigrún Oddleifson
Mrs. Helgi Johnson
Ragnheiður Paulson
Óli Péturson
Lauga Eyjólfson
Indíana Kristinnson
Njáll Johnson
Guðjón Stefánsson
Valgerður Nordal
Jóhann M. Einarson

**Deildin „Lundar"**
**Lundar, Man.**

Sveinn Johnson
Ásmundur Freeman
Mrs. Ásmundur Freeman
Oscar Johnson
Mrs. Oscar Johnson
Gísli S. Gíslason
Jón A. Björnson
J. A. Howardson
Kári Byron
Mrs. Kári Byron
Margrét Björnson
Ásta Sigurðsson
Ragnheiður Magnússon
Ágúst Eyjólfsson
Ásgeir Jörundson
Óli Johnson
Thorsteinn Johnson
Thorsteinn Gíslason
Mrs. Thorsteinn Gíslason
Albert Johnson
Sigrún Johnson
Kristín Pálson
Vigfús Guttormson
Mrs. Vigfús Guttormson
Leo Daníelson
Mrs. Leo Daníelson
Dr. Númi Hjálmarson
Oddur Oddson
Lárus Johnson
Hjalti Johnson
Margrét Johnson
Björg Björnson
Margrét Lindal
Rannveig Guðmundson
Eiríkur Hallson
Hjörtur Hjartarson
Margrét Hofteig
A. Erlendson
Leslie Johnson
Ingibjörg Rafnkelson
Ólafur Hallson
Mrs. Ólafur Hallson

**Deildin „Báran"**
**Mountain, N.Dak.**

Heiðursfélagar:
Dr. Richard Beck
H. B. Grímsson
P. B. Ólafsson
Meðlimir:
Einar J. Einarson
John J. Einarson
A. E. Pálson
Sigri Steinólfson
O. G. Jonhson
Helgi Laxdal
Mrs. Garðar Johnson
Leo Melsted
Steve Thordarson
Alvin Melsted
Fred G. Johnson
K. Kristjánson
Mrs. F. M. Einarson
Chris S. Guðmundson
G. J. Jónason
Joseph Anderson
S. F. Björnson
John Magnússon
S. A. Björnson
H. M. Jónason
Steve Myrdal
G. W. Guðmundson
H. F. Hannson
John A. Hannson
V. G. Guðmundson
Stefán Indridson
Símon S. Johnson
Sylvia Stevenson
H. S. Walters
Theodar Thorleifson
G. Gudmundson
Frank Hall
Fred Ólafson
K. S. Johnson
Victor Sturlaugson
A. S. Byron
Mrs. Ingibjörg Jónason
Mrs. J. C. Helgason
J. L. Hannson
Dale Goodman
Mrs. Kristján Jonhson
Mrs. John H. Jonhson
Barney Einarson
Helgi Finnson
Mundi Goodman
Haraldur Ólafson
Fred Halldórson
Thorunn Gestson
Ivan Guðjónson
W. M. Sigurdson
A. M Ásgrímson
V. J. Thorsteinson
Helgi Reykdal
Mrs. Lárena Northfield
Matt. Björnson
John H. Axdal
M. W. Guðmundson
Reynir E. Fafnir
Leanard Bennson
Kenneth Indridson
Sigurd E. Johnson
Raymond C. Johnson
William Paulson
Lie J. Laxdal
Hannes J. Björnson
H. S. Jenson
Elmo Kristjánson
Arnald G. Christjanson

**Deildin „Ísland"**
**Morden, Man.**

Stefán G. Einarson
Ben S. Einarson
Lorry Einarson
Árni Gillis, Jr.
Andy Gíslason
Lovisa Gíslason
(ævifélagi)
Jón Gudmundson
Mrs. Olive Kunzelman
Leonard Helgason
J. B. Johnson
Mrs. J. B. Johnson
Óli Lindal
Mrs. Freda Lindal
Mrs. Willie Ólafson
Willie Ólafson
Joe Ólafson
Páll Sigurðson
Jóhann P. Thomasson
Thomas Thomasson
Mrs. Kristín Thomasson
Guðrún Thomasson
Janathan Thomasson

**NORTH STAR CO-OP CREAMERY ASSOCIATION LIMITED**

Makers of Canada First Grade Butter

TEL.: 76-562 - ARBORG, MANITOBA

**NORTH STAR FOOD LOCKERS**

Economical Locker Rentals - Cutting, Wrappinf & Quick Freezing
Finest Bacon and Ham Curing and Smoking

Tel.: 76-307

Compliments of . . .

**STAN BURDETT**

Your Imperial Esso Agent

Res. 762-5606 Office 762-5653

LUNDAR MAN.

COMPLIMENTS OF . . .

**SIGURDSON FISHERIES LTD.**

RIVERTON MANITOBA

Compliments of . . .

**KRIS THORARINSON**

General Store and Lumber

Phone 79231

RIVERTON MANITOBA

Compliments of . . .

**JOHNSON'S RADIO & T.V.**

SALES AND SERVICE

Phone 79202

RIVERTON MANITOBA

Compliments of

**COGHILL'S FOOD MARKET**

Groceries and Meats
Fresh Fruits and Vegetables

Phone 79-381

RIVERTON MANITOBA

Compliments of . . .

**J. B. JOHANNSON & SON**

Dealing in North Star & Shell Oil
High Quality Fuels, Oil and
Farm Chemicals

Phone 76201

ARBORG MANITOBA

**Perth's**

CLEANERS
LAUNDERERS
FURRIERS

Western Canada's Largest Cleansing Institute

SUnset 3-7261